[Þess Íslendska Evangeliska
Smábóka Félags Rit. No. 4.]

# Einn christiligur
# Barna Speigill.

Er fyrir sjónir setur eptirtektaverdustu dæmi nockurra barna, hjá hvorjum Guds nád, þegar á únga aldri, verkadi eina frábæra uppvakníngu og gudligasta liferni.

Til uppvorfunar einkum bornum og únglíngum, ad képpast ad feta í þessara Guds dýrdlínga fótspor, samt hvorjum ødrum eldri manneskjum, sem ábótavant er í sínum christindómi, útlagdur úr þýdsku.

---

Kaupmannahøfn, 1816.
Prentad í Thieles prentsmidju.

J Psalm. 34, versi 12 segir David: Komid híngad, børn, hlustid á radu mína; eg vil ydur ótta Drottiñs kéña!

# Formáli
## sem iñiheldur hjartanligt ávarp til allra barna og únglínga.

Elskuligu børn!

Hér verdur yckur eiñ speigill fyrir sjónir settur ad skoda yckur í; ecki þó yckar ytri líkamligu ásynd, heldur yckar iñra mañs. Ecki til ad gamna yckur og skémta med hønum uppá holdliga gjálífis vísu, heldur til ad vekja yckar úngu hjørtu til þeirrar heiløgu athugasemi um yckar christindóm, sem lagt géti grundvøll til þeirrar gledi í sálum yckar, sem sé forsmeckur eilífs lífs.

Speigill þessi er þá ecki añad eñ sañferdug eptirdæmi, af nockrum yckar úngu systkynum, í hvørra hjørtum Jesús Kristur, fyrir trúna, peckjanliga búid hefir. Æ heyrid

þá, edúr lesid sögur þessar, med allrabestu eptirtekt, og berid yckur sjálf samañ vid þaug blessudu børn, sem þær frásegja, og adgjætid hvad ofurmikid yckur flest vantar á ad líkjast þeim, ad hegdun og hugarfari; eñ svo mikid sem yckur á þad vantar, þá vitid, ad eins mikid vantar yckur til, ad vera eins hæf til himnaríkis, sem þaug. Þad er yckur þó vitanligt, kjæru børn! ad þid eigid ad deya, og þad kañské snarliga, því ecki bída allir lángir ellidagaña; en þegar þid deyid, verda sálir yckar fluttar añadhvørt til eilífs lífs edur eilífra kvala, eptir því sem þid í þessu lífi lifad hafid, vel edur illa, eins og yckar barnalærdómur kéñir. Hugsid þessvegna um þetta alvarliga fyrirfram, og berid yckur ad búa yckur svo undir dauda og dóm, ad Jesús Kristur, sem dó fyrir yckur, þurfi ecki ad dæma yckur frá sér í eilífañ eld, af því ad þid lifad hafid andvaralaust hér í heimi.

Yfirvegid, hvørnig þaug sælu børn, sem þessi speigill sýnir yckur, hegdudu sér, og képpist vid ad verda þeim sem líkust, þid getid, því eptir því verdid þid Gudi og moñum kjærari, og vissari um himneska sælu. En hvørnig

hegdudu þaug sér þá, og hvílíkt var þeirra hjartalag?

1. Þaug høtudu syndina, já allar syndir af øllu hjarta, og létu sér þykja meir fyrir ad módga Gud siñ og Frelsara, eñ ad lída miklar þjáníngar á líkamanum.

2. Þeirra náttúruspilling stód þeim fyrir hugskotssjónum, og af heñi høfdu þaug sárt ángur fyrir Gudi, þó þaug ecki adhefdist mikid illt útvortis.

3. Þetta ángur fyrir syndir þeirra kom þeim til ad hrópa aptur og aptur til Guds miskunar, vegna Jesú Krists, um nád og fyrirgéfníngu. Æ takid eptir þessu, børn! hvørsu þaug vóru kostgjæfin og ákøf í því ad bidja Gud og ákalla. Hvørsu opt gengu þaug afsídis, grétu syndir sínar fyrir Gudi, og bádu fyrir sér og ødrum, einkum foreldrum sínum og systkinum! Sjáid! þetta vóru þaug réttu gódu børnin!

4. Hjartanligt eptirlæti høfdu þaug af Guds ordi; ecki leiddist þeim ad heyra þad lesid í húsinu, edur ad láta tala vid sig um Gud og gudliga hluti. Med hvílíkri hjartans

list lærdu þaug sin barnalærdóm! engin bók var þeim kjærari en han, og biblían!

5. Þaug vildu fara til kyrkjunar; ecki ad gamni sinu, til ad sjá nockud nýstarligt, heldur til ad heyra Guds lifanda ord, og hvørsu rækiliga fólkid tilbædi Gud, svo þaug, í hóp med því, mættu og svo tilbidja han og dýrdka.

6. Allramestu andstygd høfdu þaug á illum selskap óskickanligu gamni, og ljótum ordum. Þaug gátu aldeilis ecki heyrdt á svoddan! Þegar adrir vóru ad hlæa, midt í sínum gárúngaskap og glensi, þá gengu þaug affidis og grétu yfir sinum og þeirra syndum, fyrir Gudi.

7. Med sinu goda eptirdæmi og jafnvel advørunum, báru þaug sig ad uppvekja adra, og koma þeim til ad verda eins sinadir og þaug vóru, einkum þeim børnum og únglingum, sem þaug umgengust med.

8. O hvørsu hjartanliga hlýdin vóru þaug foreldrum sinum, og vildu allt gjøra þeim til þægdar, sem ecki væri Gudi á móti. En þegar þaug hendti einhvør óviljandi yfirsjón, medkéndu þaug hana strags og skrøk-

vudu aldrei neinu til; bádu sídan Gud og foreldra sína fyrirgéfningar, og leituduſt vid ad betra ſig.

9. Þaug høfdu hreinañ Kjærleika til allra maña, og kéndu í brjóſti um þá veſælu, vildu gjøra þeim það gott, ſem þaug gátu, og bádu adra ad gjøra það. En einkanliga kéndu þaug í brjóſti um ſær mañeſkjur, ſem þaug heldu ad ſnaudar væru af Guds náð, vegna ſíns ÿdrunarleyſis, og bádu af øllu hjarta Gud ad umvenda þeim.

10. Stakliga þolinmód vóru þaug í mótlæti og ſjúkdómum, gáfu ſig viljugliga undir Guds hønd, og eins og Jeſús ſonur Guds, bádu þeſs heitar og optar, ſem neydin þreingdi faſtara ad.

11. Dagliga bjuggu þaug ſig undir daudañ, med heitri ÿdrunarbæn fyrir ſyndir ſínar, og med því ad leitaſt vid, fyrir trúna og kjærleikañ, æ betur og betur ad iñliſaſt ſínum lauſnara Jeſú Kriſto.

12. Og ſvo fengu þaug þá lokſins endalok l ſſíns, eins og lifnadinum ſvaradi. O hvørſu glediligur og hughrauſtur var þeirra vidſkilnadur frá heiminum! Þaug hløckudu til

dáudans, eins og til añarar stórhátídar, og gengu sigrihrósandi iñí eilífdina.

Æ viljid þid nú ecki, elskuligu børn og ýnglíngar! sem þetta heyrid edur lesid, viljid þid ecki verda þessum yckar systkinum lík? Þid viljid þó fyrir víst eignast eilíft líf, eins og þaug! O berid yckur þá ad verda þeim lyndis- og lifnadar-lík, sem best þid gétid, medan þid lífid! Þad er yckur líka, fyrir Guds nád, víst ad nockruleiti, møguligt; því sá Guds-andi, sem krøptugliga verkadi, í þeirra hjørtum, ydrun, trú og lifernis betrun, vill hid sama med yckur verka, ef þid, eins og þaug, leitid þess med bæniñi hjá hønum. Eg veit ad vísu, ad þid sjáid fáa þeirra líka, í kríngum yckur dagliga, af eldri edur yngri mañeskjum. Látid þad, børn! ecki villa yckur, því heimuriñ, segir Guds ord, liggur í því vonda! En ef þid þeckid nockra þvil ka, æ svo elskid þá, haldid yckur til þeirra, breitid eptir þeim! Slíkar mañeskjur eru réttar perlur í Guds augum! ad vera ríkur, mektugur, frídur, feitur og friálsligur, þad er engiñ somi fyrir Gudi; já verdur mørgum — æ því midur, ofmørgum — ad sálar tjóni. Gudhrædslan ein — og hún all-

ein — er sú saña æra, ríkdómur, frídleiki og fremd, sem Gud vill álíta! Æ eg óska yckur þá heñar, børn! af øllu hjarta!

Guds eingetin sonur, sem fyrir yckur og alla oss dó — en nú lifir vid Guds hægri hønd — hañ rotfesti saña trú, kjærleika, hlýdni og allar christiligar dygdir í yckar úngu hjørtum, og gjøri yckur ad siñar dýrdar samørfum eilífliga! þess óskar aptur og aptur. —

Ydar elskari í Drottni,

Jón Jónsson.

# 1ta Eptirdæmi.

Eitt meybarn ad nafni Sara Howley, þegar hún var millum síns áttunda og níunda árs, var hún einu siñi, af náfrændum sínum, látin fara med ødrum til ad heyra eina andríka predikun, í hverri predikarin lagdi út af þessum Kristí ordum, hjá Matth. 11. **Mitt ok er sætt, og mín byrdi létt.** Þegar hañ nú sídarst í rædu siñi, med hjartnæmum ordum, iñþrikti þessum ritníngar texta hjá sínum tilheyrendum, vard barn þetta þar af kroptugliga uppvakid, svo hún, med eirni sárri og alvarligri tilfiñíngu, merkti hvørsu ástand sálar siñar aumt væri, og hvørsu stóra þørf hún þessvegna hefdi á Kristo. Hún grét beisklíga, þegar hún þeinkti um þad, í hvílíku ástandi hún væri, géck svo heim til sín, og fór affsidis ein í eitt herbergi, féll nidur á sín kné, grét og hrópadi til drottins af øllum kroptum.

Þessa hennar hjartans umbreitíngu sáu menn gløggt á yfirbragdi hennar.

2. En þetta lét hún sér þó ecki nægja, ad hún einarsta sjálf fengi ad þeckja sitt sálar ástand, heldur tók hún og sinn litla bródir og systir med sér í eitt herbergi, og skýrdi þeim frá, hvørsu hørmuligt ástand þeirra, af náttúrunni til, væri, grét þessvegna yfir þeim, bad til Guds med þeim og fyrir þeim.

3. Eptir þetta heyrdi hún eina adra predikun, út af þeim ordum, sem skrifud standa í Ordskv. 29 Cap. svohljódandi: **Hvør hann hardsvíradur er í móti hyrtíngunni, mun voveifliga, fyrir utann alla hjálp fyrirfarast.** Af þeirri rædu hrærdist hún enn meir, enn ádur, og vard svo yfirmáta sorgandi út af sinum sálarhøgum, ad hún gjørdi eckert annad nockurn part næturinnar, enn gráta og bidja, og þad gêck svo fyrir henni, um nockurn tíma, ad hún hardtnær hvørki dag nê nóttu, hafdi nockra ró, gyrntist af øllu hjarta engan hlut svo frekt, sem þad hún sneidt fengi hjá eilífum eldi, og ødlast hlutdeild í herranum Jesú. O! hvad var, sem hún ei

tilviña vildi, ef hún adeins höndla mætti Kristum.

Hvad var sem hún ecki vildi tilviña, mætti hún adeins hólpin verda.

4. Hún lét sér mjøg umhugad vera, kostgjæfiliga til Guds húss ad koma og predikanir ad heyra, af hvørjum hún allatíma komst mjøg vid í hjarta sinu, og sérdeilis yndi og eptirlæti hafdi hún af øllu því, sem hún í Guds húsi heyrdi.

5. Mjøg ástundunarsøm var hún í því ad fremja þá heimugligu bænagjørd, vid hvad þeir opt varir urdu, sem ástundum stódu fyrir framan heñar herbergisdyr og hlustudu til heñar; og optastnær var hún í bænagjørd siñi mjøg breñandi, ákøf og med miklu táraflódi.

6. Hún gat naumast svo á syndina minst, edur heyrdt adra um hana tala, ad hjarta heñar yrdi ecki undir eins sundurmarid, og augu heñar flytu í tárum.

7. Hún eyddi miklum tíma til ad lesa þá heiløgu ritningu og eina adra góda bók, sem kallast: Sá besti vinur á vondum tíma; hvar fyrir ad Guds nádar verk tók miklum framførum í sálu heñar, og hún ødladist hér

af góda vegvísun um þad, hverfu hún gjæti ordid Gudi rétt kuñig og handgêngin, einkanliga af rædu þeirri, sem sídla í áminstri bók er ad siña. Ein øñur bók, hverja hún mjøg elskadi var sú sem kallast: Kollunar Skylda eins kristins mañs; og út af þessari bók lærdi hún á vissañ hátt, ad gjøra gudhrædsluna ad sinu handverki. Svo var og eirnig bók sú er nefnist: sú andliga Bísluga, nærstum því heñar sífeldur førunautur.

8. Stakliga hlýdin og audsveip var hún foreldrum sinum, og bar stærstu umsorgun fyrir, ad hún ecki í minsta máta þaug módgadi, en ef svo vildi einhvørju siñi til, sem þó furdanliga sialdan skédi, ad hún þaug módgad hefdi, grét hún út af því beiskliga.

9. Hún hafdi eirn stórañ ama á allri lýgi, og samþyckti aldrei i neirni vitanligri synd, leint edur ljóst.

10. Hvad áhrærdi brúkun tímans, þá var hún og svo þar i mjøg samvitskurik; hún hatadi allt ydjuleisi, og eyddi timanum mestpart, añadhvert med því ad bidja edur lesa, edur med því ad uppfræda sína úngu brædur

og systur, edur og med ad sauma, til hvørs verks hún mjøg snildarliga lagin var.

11. Í barnaskólanum sýndi hún sig, framar øllum ødrum, sérdeilis ydna, lærdómsfulla, hógláta og sidsama; taladi mjøg lítid og sjaldan, en þegar hún taladi nockud, var þad optast um andlig efni.

12. Þessu heilaga framferdi og gudhrædslu æfingum heldt hún áfram, um nockurra ára tíma, í rød.

13. Þegar hún ordin var nær því fjórtán ára gømul, tilféll heñi sjukdómur sá, ad ein æd, eptir því sem meñ ímiududu sér, brast í lúngum heñar, svo hún eptir þad hafdi opt blód-uppgáng; þó hrestist hún aptur nockud um hrid, jafnvel hún upp frá því fengi endur og siñum hættulig sjúkdoms áføll.

14. Í uppbyrjun þess sídarsta Januari, sem hún lifdi, vard hún aptur ad nýu hardla veik, í hverjum sjúkdomi hún þar á ofañ féll í stóra sálar ángist. Fyrst þegar hún sjúk vard, sagdi hún: "æ módir mín gód! bidjid, bidjid, bidjid fyrir mér; Satan sækir svo fast á mig, ad eg sjálf gét ecki bedid fyrir mér. Eg sje, ad án Krists, og fyrirgéfningar synda

miña, verd eg fortøpud. Ojá! eg verd fortøpud! fortøpud um alla eilifd!"

15. Módir heñar, hverri ei var ókuñigt um, hversu alvarlig í gudhrædsluñi hún ádur verid hafdi, furdadi sig heldur eñ ecki yfir, ad hún skyldi nú sjá hana stadda í þo likri sálar ángist, spurdi hana þessvegna, hvad fyrir ein synd þad væri, er nú svoleidis plágadi hjarta heñar og sálu? hún andsvaradi: "æ kjæra módir! þad er ecki nein viss synd útaf fyrir sig, er eg sérilagi framid hefi, hvert heldur med því ad gjøra þad illa, edur vanrækja þad góda, er nú svo þúngliga plágar samvitsku mína, heldur er þad miklu framar sú syndsamliga vanart miñar spiltu náttúru; því eg veit fyrir víst, ad, án Kristi blóds, muni hún mér til fordæmingar verda."

16. Þar eptir spurdi módir heñar hana, um hvad hún vildi ad hún heñar vegna, af Gudi bidja skyldi? hún svaradi:

"Ad eg ødlast mætti eina sáluhjálpliga þeckingu svovel á syndum mínum sem á Kristo, og nockra fullvissu í mér fiña, um þad, ad Gud elski sálu mína." Módir heñar spurgdi hana þá: hvarfyrir hún svo litid talad hefdi

vid Prestiñ, sem til heñar komid hefdi, ad vitja heñar, en hún svaradi: "þad væri sér tilhlýdilegra med þøgn og þolinmædi af hønum ad læra; þartil félli sér þad mjøg þúngt, ad tala vid nockurn, hver heldst hañ væri."

17. Einusiñi, þá hún stodd var í þúngri hjartans freistingu, hrópadi hún: "æ eg hlýt ad deya! en hvad skal eg gjøra, svo eg verdi sáluhólpin! æ hvad skal eg gjøra, svo eg verdi saluhólpin! Sæti herra Jesú, þér vil eg til fóta falla; því ef eg hlýt ad deya, þá skal þad þó ské, hjá uppsprettu bruñi nádar þiñar."

18. Hún bar stórañ ótta fyrir því, ad hún gjøra kyñi sér betri þánka um sálar-ástand sitt, eñ þad i rauniñi væri, og um þad var hún hugsjúk, ad hún á einhvern hátt fara kyñi vilt í voniñi um sína salar velferd; hún plagadi því mjøg opt til Guds ad andvarpa, ad hañ vyrdtist sig frá því ad vardveita, ad hún ei sjálfa sig á tálar drægi; og svo eg framfæri ad eins eitt dæmi þar uppá, þá sagdi hún eittsiñ: "O þú voldugi og almattugi Gud! gèfdu mér trúna! já — Drottiñ, sañna tru! svo ad eg ecki se ein á medal þeirra fávisu

meyja, sem ad sønu hafa lampana, en eckert vidsmjør í þeim!"

19. Guds nádar fyrirheit fadmádi hún þráfalt ad sér, og setti honum þaug fyrir sjónir, í sinum bænum. Pad fyrirheit Kristi, sem stendur hjá Matth. í 11 Cap. **Komid til mín allir þér sem þúnga þjádir erud, ydur vil eg endurnæra,** hafdi hún opt í muñi, og fañ í því ecki allitla endurnæringu sálu siñi. Hvorsu opt plagadi hún ecki, ad upphrópa, segjandi: "Herra, hefur þú ecki sagt: **Komid til mín allir þér sem erfidi drýgid, og erud þúnga þjádir, ydur skal eg endurnæra?** æ endurnærdu mig þá herra Jesú!"

20. J eirn añañ tíma, þegar fadir heñar hvatti hana til ad vera med gódu gèdi, því hún mundi til eins betra fodurs koma, eñ hañ væri, komst hún mjøg iñiliga vid, af þeim hans ordum, og mælti: "En, hversu fæ eg þá ordid fullviss þarum? eg er ein vesæl syndug skèpna, hverja einkanliga vantar fullvissu um þad, ad eg egi sæla heimvon vísa eptir líf þetta. Æ fullvissu!" þetta ord var sífeldt heñar andvørpunar ord: æ fullvissu! Já,

sú var heñar stærsta, iñiligasta og ydugligasta bæn til allra þeirra sem til heñar komu, ad þeir vildu beidast af Gudi þessarar fullvissu heñi til handa, og heñar vesæla hjarta. Hún leit til þeirra med svo sorgligu yfirbragdi, sem þad væri eckert añad í heiminum, er hún svo frekliga gyrntist, sem þad, ad þeir aumkudu sig yfir hana, og vyrdtust med siñi bæn til Guds, heñi til hjálpar ad koma.

Engin vesæl sk:pna í heiminum hefur nockru siñi gyrnst neirn hlut med stærri ákafa og þreyingu, heldur eñ hún gyrntist ad fá fullvissu um sina saluhjálp, og ad mega sjá ljós Guds nádar-audlitis í sálu siñi. O hversu sárgrætilig andvørp, mátti t dum til heñar heyra! O! í hvíliku ángistar str.di hlaut sála heñar opfliga ad standa!

21. Þegar módir heñar spurdi hana einusiñi ad: ef Gudi þóknadist eñ nú ad lengja lífstundir heñar, hversu hún þá hefdi ásett sér, sínum lifnadi sídarmeir ad haga? gaf hún þad andsvar:

"Sañliga, elskuliga módir, høfum vér meñirnir svo vanartug hjørtu, ad eg ecki þarf ad segja ydur frá þv ; þegar vér sjúkir erum,

þá erum vér reidubúnir ad lofa miklum hlutum, en þegar vér aptur høfum heilsuna fengid, erum vér þó eñ nú reidubúnari ad gleima sjálfum oss og voru heitordi, en snúa oss aptur til vors syndsamliga athæfis. Þó vona eg, ad, ef Gudi þoknast ad draga lífstundir mínar, muni eg framvegis, med stærri umhyggju eñ hingad til, vardveita miñ tíma og mína sálu."

22. Hún var full af náttúrligri hjartans elsku til siña foreldra, og vard yfrid hugsjúk út af því, ad módir sín yrdi vanmegna, af þeim sifeldu vøkum, sem hún hafdi yfir heñi, í heñar sjúkdómi. Módir heñar sagdi vid hana: hversu mun eg géta umborid og þolad dauda þiñ, med því augu mín eru naumast þur ordin af tárum þeim, eg úthelt hefi yfir dauda bródur þins?

En Sara andsvarade: "Gud allrar elsku vyrdist ad styrkja og hugga ydur; þad er ecki nema litill tími þángad til vid munum, sem eg vona, sjást aptur i dýrdiñi." Af því hún mjøg sjúk var, þá gat hún í þad siñ litid talad; þarfyrir sagdi módir heñar til heñar: kjæra barn, ef þú fiñur nockra huggun og

rósemi í hjarta þínu, þá géf mér það til vitundar, með því að upplypta þinni hendi; hvað hún og gjørdi.

23. Á einum sunnudegi, átta døgum fyrir þann sama sunnudag, á hverjum hún andadist, kom einn af hennar náfrændum, til að vitja hennar, og spurgði hana: hvørt hún þekti sig vel? Þá svaraði hún: "já, eg þekki ydur, og bið, að þér leggið ástundan á, að þér lærdt fáið að þeckja Kristum; þér eruð að vísu enn nú úngur, en þér vitið ecki, hversu hastarliga þér deya kunnið; en, að deya án Kristis, æ! það er eirn skélfiliga óttaligur hlutur; æ! takið því vara á tímanum! ó tími, tími, tími! ó þú edla tími!" Þegar nú sá aðkomandi beiddi, að hún ej skyldi taka of nærri sér, með þessu tali, svaraði hún: "að hún vildi feigin, svo lengi hún lifði, gjøra svo margt gott, sem sér fremst møguligt væri; já og ef það væri møguligt, vildi hún ogsvo gjøra það, þegar hún daud væri; og þessvegna sagðist hún eirnig bidja, að, þegar sin jardarfør skédi, væri haldin ein líkpredikun, út af því efni: hvað tíminn dýrmætur væri. Æ að alt ungisfólk

vildi á sínum úngdómsárum þeinkja á sinn skapara!"

24. Nockrir prestar, sem hennar vitjudu bádu Gud af ǫllu hjarta, ad hann sér þóknast léti, ad veita henni fullvissu um sína nád, svo hún med fǫgnudi og sigurhrósi mætti vid heiminn skilja.

Svo og vóru bréf látin gánga millum kyrknanna fram og aptur, þess innihalds, ad fyrir henni bedid væri um sama efni.

25. Eptir þad hún hafdi lengi bedid og þrád eptir bænheyrslu uppá sitt margfalda bænahróp, sagdi hún loksins: "Nú vel, svo vil eg þá voga sálu minni uppá Kristi nád."

26. Allar sínar þjáníngar umbar hún med undrunarverdri þolinmædi, og þó bad hún opt, ad Gud vildi géfa sér enn stærri þolinmædi, um hvad drottinn eirnig bænheyrdi hana, svo menn máttu stórum þar yfir forundrast; því í tilliti þeirra stóru harmqvæla og samvitsku strids, sem hún leid, var þolinmædi hennar rétt eitt furduverk. "Drottinn, Drottinn," sagdi hún opt, "géfdu mér þolinmædina, svo ad eg ecki gjǫri þér vanæru med minni óþolinmædi.

27. Eptir svo lángsama freyíngu, svo áugiſtarfullañ ótta, og svo margfalda bæn, þañ nærſtkomanda fimtudag, þá allir vinir heñar eckert añad hugſudu, eñ ad hún hefdi ølldúngis málid miſt, þá tók hún allt i einu, svo allir heñar vinir ſtórum undruduſt, ad tala, og med eiñi ſérdeilis ſkiljanligri røddu og gladværu yfirbragdi, útbrauſt med þeſſum ordum: "Drottiñ, þú hefur fyrirheitid, ad hvørn, sem til þín kémur, viljir þú ecki útreka; Drottiñ, nú kém eg til þín, þeſſvegna munt þú mér engan vegiñ heldur frá þér ſkúfa. Æ! hvørsu ſætur! æ! hvørsu elſkuverdugur er Jeſús! O nú hefi eg þañ ſæta og dýrdarverduga Jeſúm! Hañ er ſætur, hañ er ſætur, æ ſætur er hañ! O þañ óvidjafnanliga, forundrunarverda Guds kjærleika, ad hañ hefur ſendt oſs Jeſúm Kriſtum! O þá óverdſkuldudu Guds nád, vid eina svo veſæla og glatada ſkepnu!" Þeſſi edur þvílík ord ítrekadi hún til ſkiptis jafnvel hundradſiñum. En sem vinir heñar ſáu, ad hún ſtødd var í þvílíkri gudligri hugarins upptendrun, og heyrdu af muñi heñar þvílík ſt-kliga hjartnæm ord, og á þañ hátt merktu, hversu bænir heñ-

ar og andvarpanir heyrdar vóru, undrudust þeir ſeir þar yfir hardla mjøg, ſvo þeir megnudu ecki ad uppſkrifa fjórda part þeſs hún taladi.

28. Eptir ad heñar ſála var nú þañig med J ſú Kriſti elſku, ſem ødru fagnadar fl di, uppfylt, og heñar túnga á ſvo háleitañ og ypparligañ hátt akøf í því ad vegſama ſiñ Gud, tok hún ad upphvetja fødur ſiñ, brædur og ſyſtur og adra í húſinu, alvarliga til gudhrædſluñar, vid hvørja hún, hvørn eptir añañ, út af fyrir ſig, taladi, ad ſvo miklu leiti kraptar heñar leifdu. Sína bibliu gaf hún, ſem eitt miñisteikn eptir ſig, einum ſiña brædra, og grátbændi hañ, ad hañ vildi brúka hana koſtgjæfiliga, bædi ſjálfum ſér til nota og í ſína endurmiñingu. Sagdi þar hjá til hañs og hiña añara: "ó brúkid ſvo tíma þañ, ſem þér hafid, ad þér, medañ hañ varir, áuñid fáid Kriſtum, til ad vera frelſara ſálna ydar; eydid ecki tímanum, med því ad gánga fram og aptur í ydjuleiſi, edur med holdligum dægraſtyttíngum.

Æ leitiſt vid ad ná Kriſto, ſvo hañ frelſi ſálir ydar; þeſſvegna á medan þér úngir erud,

þeinkid á ydar skapara, fyrri eñ þér leggist á sóttarsængina; dragid ecki þetta stóra verk undañ alt þángad til, því añars mun ydur verda þad — eg ségi ydur satt — eitt óbæriliga þúngt og ørdigt verk. Eg veit vel, af egin reynslu, ad diøfulliñ mun skjóta því iñ hjá ydur: ad nógur sé tímiñ, og af því þér úngir séud, þá sé ecki þørf ad flýta sér svo mikid; ad þér hafid nógañ tíma til þessa, þegar þér erud gamlir ordnir.

En gjætid ad, þar stendur ein (og í því bendti hún til ømmu siñar, er þar stód), sem verdur nú eptir í heiminum; en eg, sem þó er svo úng, hlýt hédan burtu ad víkja. O þessvegna, gjørid ydar køllun og útvalníngu fasta, medan þér eñ nú erud heilir og hraustir. En mig uggir, ad þessi mín ord, muni ad eins eiñar nætur tíma gjøra ydur órótt í siñi, en munud sídar snarliga þeim gleima; eñ miñist þess þó, ad þetta eru ord ydar deyandi systur.

Æ ad þér ad eins vissud, hvad gódur ad Jesús Kristur er! æ ad þér ad eins einusiñi smacka mættud hans sætleika; og þá mundud þér þúsundsiñum heldur vilja í gégnum daud-

añ til hans brjóstast, eñ léngur dvelja í þessari vondu veröldu. Eg vildi ecki vid 10 þúsund, og en nú 10 þúsund veraldir, skipta miñi hlutdeild í Kristo. O hversu farsæl er eg, ad eg má nú fara til eilífs lífs! Eg gyrnist ecki tilbaka í heimiñ, þó 20 þúsund veraldir væru í bodi. Æ viljid þér þá ecki ogsvo kappkosta, ad þér mættud ödlast hlutdeild í Kristo!"

29. Eptir þetta leit hún til eins af síns födurs þénurum, og mælti: hvad skal eg til gjöra á þeim stóra degi, þegar Kristur mun til mín segja: **Kom þú hér, hin blessada míns födurs, og eignastu þad ríki, sem þér fyrirbúid er!** En mun þar á móti ségja til hins gudlausa: **Far þú bölvadur, í þad díki, sem eilífliga breñur.** Hvílíka ángist gjörir þad mér, ad eg hlýt ad sjá, ad nockrir af mínum vinum, hvörja eg á jörduñi þeckt hefi, verda útsnaradir í þad eilífliga loganda díki?

O þénkid um eilífdina! o hvílíkt ord er: Eilífd! Eg tala þetta ad soñu til yckar, en þad mun þó alls ecki hjálpa, sé svo, sjálfur Gud tali ecki ogsvo til ydar. O bidjid, bid-

jid, bidjid ad Gud veiti ydur sína náð!" Þar eptir tók hún sjálf ad bidja, og sagdi: "Drottiñ fullkomna þitt verk í þeirra sálum! Það mun verda mér ein hjartanlig ánægja, ad mega sjá ydur sídar meir í dýrdiñi, en sjálfum ydur mun það ein eilíf farsæld verda."

30. Amma heñar, sagdi þá til heñar, að hún legdi ofmikid á sig med þessu tali, hvar til hún svaradi: "eg skeiti álls eckert þarum, ef eg ad gjæti gjørdt eiñi sálu nytsemi þarmed."

O med hvílíkum hjartans ákafa taladi hún, rétt eins og allt heñar hjarta, væri í hvørju ordi sem hún framfærdi!

31. Hún var full af andligum rædum; og nær því allt heñar tal, í øllum heñar sjúkdómi, frá upphafi til enda, var um sálu heñar, sætleika Jesu Kristi og añara maña sálar ástand; med einu ordi ad segja, heñar tal var eckert añad, eñ ein sifeld samanhángandi predikun.

32. A føstudagiñ þar eptir, eptir það hún haft hafdi í sér svo lífandi tilfiñíngu Guds kjærleika, lángadi hana yfirmáta mjøg til ad deya, og hrópadi því upp: "Kom herra

Jesú! kom snarliga! flyt þú mig í þitt herbergi! án þín er eg ein aum og vesæl sképna! En drottiñ, mína sálu lángar hjá þér ad vera! æ hvenær mun þad ské! því má þad ecki ské á þessu augnabliki, miñ dýrmæti Jesú! kom herra Jesú! kom snarliga! en hvad segi eg? drottiñ þiñ tími er sá besti! æ géfdu mér þolinmædi!"

33. Á Laugardagiñ sókti hana mikill svefn, og þessvegna taladi hún miøg fátt; þó lét hún endur og siñum þessi og þvílík ord af sér heyra: "hversu lengi sæti Jesú? fullkomna þitt verk sæti Jesú, kom hastarliga, sæti, dýrmæti herra Jesú! kom snarliga! sæti Jesú, hjálpadu mér! kom brádliga! æ nú, nú dýrmæti Jesú! kom snarliga! elskuligi herra, géf mér þolinmædi ad bída, þar til þiñ áqvardadi tími kémur!" á þeñañ hátt taladi hún optsiñis milli svefndúraña, því hún lá mestañ hluta þess dags í svefnmóki.

34. Á Suñudagiñ taladi hún hartnær eckert, þó óskadi hún þess iñiliga, ad þackætis sedlar væru sín vegna útsendir, til allra þeirra stada, hvar fyrir sér hefdi bedid verid; og ad meñ þacka mættu Gudi, ásamt sér, þá full-

komna fullvissu sinar nádar, sem hann sér gefid hefdi; og þad leit svo út, sem hún í sínum þáunkum væri aldeilis inntekin, af forundrun yfir Guds óforþéntu elsku til sinnar sálar. Mjøg þráfamliga fól hún sinn anda í Guds hendur, og þaug sídurstu ord, sem menn heyrdu hana tala, vóru þessi: "Drottinn hjálpa þú! Drottinn Jesú hjálpa þú! dýrmæti Jesú! blessadi Jesú!" Og svoleidis sofnadi hún þá sætliga, í sínum Jesú, á sunnudaginn skømmu fyrir hádegis bil, og uppbyrjadi sinn eilífa hvíldardag þann 16 Febr. ársins 1670.

## 2ad Eptirdæmi.

Eittsinn var eitt lítid barnkorn, hvørt módir þess hafdi, þá hún en nú bar þad í sínu lífi, allareidu drottni helgad. Adur enn barn þetta fengid hafdi fullkomid mál, tók þad ad ákalla drottinn, og hafdi eina stóra gyrnd eptir ad læra nockud gott.

2. Þad gat ecki lidid, ad þad flutt væri í rúm sitt, fyrr enn þad var búid ad vera vid kvølldbænalesturinn, og annars áminnti þad opt foreldra sína, til ad byrja hann; og á medann plagadi þad, med stórri andagt, nidur ad

kriúpa, og med stórri ánægju og þolinmædi ad bída vid þar til lesturinn var úti, án þess þad sýndi minsta merki þess, ad þad mæddist edur því leiddist; miklu heldur sýndist sem þad aldrei ánægdara væri, enn þegar þad stadt var í þvílíkum heilögum, æfíngum.

3. En med þvílíka andagt, sem þad á þeim vanaligu bænalesturs tímum sýndi, lét þad sér ecki nægja, heldur plagadi þad ogsvo, þegar enginn var hjá því, ad gánga afsídis, í einhvorn afkima húsins, falla á sín kné og bidja sinn Gud.

4. Guds ord ad heyra, hvört heldur predikad edur lesid, var þess stærsta eptirlæti.

5. Þad vildi fúsliga til skólans gánga, ad eins þad fengi þar eitthvad um Gud ad læra; og þad plagadi, hvad sem þad las, vel ad yfirvega og sér náqvæmliga ad íminda; þegar þad kom þá aptur heim til sín, taladi þad þarum med stórum ákafa og innvortis tilfinníngu. Því þókti mikid vænt um sitt lærdóms kver, og sagdi eittsinn til módur sinnar:

"Æ módir min góð! í dag hefi eg haft eina fæta lexíu; þóknast ydur ecki ad lofa mér

ad sækja kverid mitt, svo þér fáid ad heyra hana lika."

6. Eptir sem þad vóx upp, þess stærra eptirlæti og gyrnd féck þad til þeirra hluta, sem heyra til þeim eptirkomanda heimi; og þad svo mjøg, ad ef eg ei hefdi fráføgn þessa fengid af þeim mañi, um hvers hreinskilni alls eckert er ad efa, mættu meñ halda slikt fyrir ótrúanligt.

7. Biblíuna lærdi þad fljótliga ad lesa, og plagadi med stærstu audmykt, hjartans hræringum og mørgum andvørpunum hana ad lesa, svo harmur og tár hindradi þad opt frá ad géta lestrinum framhaldid.

8. Þegar þad framdi sina heimugligu bænagjørd fyrir Gudi, plagadi þad sømuleidis beiskliga ad gráta.

9. Opt plagadi þad ad klaga yfir hiñi syndugu og mótþróagjørnu vanart hjarta sins, og þad var svo ad merkja, sem þad framar ángrádt væri út af spillingu nattúru siñar, eñ út af nockurri vissri synd, er þad drygt hefdi.

10. A gudligum hlutum hafdi þad eiñ dalmeñiliga stóran skilning, svo þad géck nærst

einu jardteikni, af eiñi barnskepnu, ecki eldri eñ þad var.

11. Sérdeilis ángrádt var þad, vegna siña óstødigu þánka í bæniñi, og þad olli því stórrar ángistar, ad þad ei haldid gat hjarta sinu, sífeldt í heil: umþeinkingum um Gud, og alvarligri athugasemi á hvørju sem þad gjørdi; sem og sínum géds hræringum í stadfstum heilögum andagtar blossa.

12. Þad vakti kostgjæfiliga yfir hjarta sinu, og gaf vel gjætur ad verkunum sálar siñar; þad barmadi sér og þúngliga yfir því, ad sála sín væri svo hégómagjørn og dárlig, ogsvo litt hneigd til andligra og himneskra hluta.

13. Eptir sem þad vóx ad líkamanum til, svo vóx þad og dagliga i andligri þeckingu og reynslu, og lifnadarlag þess vottadi svoddan himneskt siñi, rædur þess vóru svo ypparligar og á andligri egin reynslu bygdar, ad þeir sem til þess heyrdu, undrudust þar stórum yfir.

14. Í siñi bæn, taladi þad vid þañ elskuliga Gud med stærstu hjartans ákéfd og stakligri alvørugéfni; og þad plagadi ad brúka

þær ástædur í bæn sinni, sem menn þénkja mættu ómøguligt væri, ad þvílíkar gjætu nockru sinni í eins barns hjarta komid. Þad bad Gud, þad sárbændi hann og grét svo ákaft, ad slíkt þess bænahróp gat ei dulist fyrir nágrønnunum, er bjuggu þar rétt hjá; þessvegna þvíngadi slíkt einu sinni einn af þeim, sem bjuggu í næsta húsi, til ad brjótast út med þessum ordum: Bænir og tár barnsins, sem hérna er í næsta húsi, munu steipa mér til helvítis. Meining hans var, ad barn þetta fordæmdi sig fyrir sitt tómlæti í bæninni, edur og dofinleika í henni, þá sjaldan han ydkadi hana.

15. Í selskap vondra og gudlausra manna hafdi barn þetta mesta andstigd, og plagadi því optsinnis ad bidja sinn elskuliga Gud, ad hann virdtist sig frá honum ad vardveita, og ad hann geymdi sig fyrir því, ad þad aldrei legdi lag sitt vid børn þaug, hvørra eptirlæti ad væri ad gjøra hvad Gudi mislíkadi. Já þegar svo bar vid, ad þad einhvørjusinni heyrdi á því-lîkra vanaliga gudleisis tal, svo sem Guds-nafus vanbrúkun, manneida edur adra késtnis-fulla mælgi, fékk þad svo mikinn viðbjód í sig þar á, ad þad skalf og titradi, svo þad snar-

liga gêck í sitt hús aptur, og grét út af þvi fyrir sínum Gudi.

16. Alla lygi hatadi þad af innsta grunni sálar sinnar.

17. Nær þad hendti einhvør yfirsjón, var audsókt ad koma þvi til ad vidurkénna hana og þá plagadi þad ad gánga í eitt afkima edur afvikinn stad, og bidja Gud med tárum, ad hann virdtist sér hina sömu ad fyrirgéfa, og ad léna sér framvegis adstod og krapt, til ad fordast slikar og þvilíkar syndir. Þad átti einn vin sem opt stód á hleri og hlustadi til þess, af munni hvers eg þessa sögu heyrdt hefi.

18. Þegar þad adspurt var, hvørt þad þá edur þá synd, sem þad einhvørjusinni af badgjætslu framid hafdi, vildi optar gjöra, plagadi þad aldrei fortakslaust nockru þarum ad lofa, þvi þad sagdi, hjarta sitt væri ofvan-artigt til þess, heldur plagadi þad ad gráta og segja: þad vonadi fyrir Guds nád þvilíkt aldrei framar ad gjöra.

19. Þegar þad um sunnudag var heima eptirskilid, svo þad ei fór til kyrkju med foreldrum sínum, var ad þvi visu ad gánga, ad þad alls ecki eyda vildi neynum tíma af þeim

heilaga dégi í ydjuleisi edur hégómlegum leikum, heldur var ydja þess ymist ad bidja edur lesa í biblíuñi, sem og ad hafa yfir frædi sín og barnalærdóm.

20. Opt og mørgum sinnum, þegar øñur børn vóru ad spila, geck þad afsidis og badst fyrir

21. Eiñ dag tók ein vís persóna ad eiga tal vid þad um náttúrur, embætti og ypparligleika herrans Kristi, og ad hañ alleiñ væri sá, sem fyrir vorar syndir fullu borga kyñi, og oss þad eilífa líf ad afreka, og um fleiri þessháttar stóra leyndardóma vorrar endurlausnar, þá var eckert añad ad merkja, eñ ad barnid, med eiñi sáluhjálpligri þeckíngu, skildi mikid vel allt svoddan efni og hefdi stórt eptirlæti af þessu vidtali.

22. Þegar einhvør ogsvo miñtist á þá ókomnu upprisu líkama vorra vid þad, samsiñti þad því fúsliga; en ad sá hiñ sami vesæli líkami, sem í kirkjugardinum grafiñ væri, skyldi upp aptur rísa, þad þókti því mjøg undarligt. Þó samsyñti þad lotsins med stærstu forundrun því, ad hjá Gudi væri engin hlutur

ómøguligur. En á þeim sama degi vard þad daudsjúkt.

23. Þegar þad fyrst var sjúkt ordid, spurdi eiñ vinur þess þad, hvørt þad væri nú fúst til ad deya? og þá gaf þad þad svar: nei, því þad kvadst eñ nú óttablendid vera, í hvørju ástandi sála sín væri, ef þad ætti ad koma í adra veröldu. Því svo, Barn! sagdi hiñ; þú hefir þó bedid Gud um eitt nýtt hjarta, um eitt hreinskilid og audmjúkt hjarta, hvad eg sjálfur heyrdt hefi; eda hefurdu ecki bedid um þetta þráfaldt og af instu rótum? Jú, svaradi barnid, þad vona eg hafi gjørdt.

24. Skømu þar eptir spurdi sama persóna þad aptur: hvørt þad væri nú ecki fúst ad deya? Þad andsvaradi: Jú, nú er eg fús þar til, því eg veit ad fæ ad koma til mins endurlausnara Jesúm.

25. Einhvør añar spurdi þad, hvørnig þá mundi fara um hana systir þess, ef þad skyldi deya, og svo yfirgéfa hana? þad svaradi: Drottins vilji hlýtur ad ské.

26. Eptir þetta vard þad æ sjúkara og sjúkara, en þad umbar allt slíkt med þolinmædi og ánægju, bidandi sífeldt eptir sínum

umskiptum, allt til þess það loksins með fögnudi fól sálu sína í Guðs hendur, ákalladi nafn drottins og sagdi: Herra Jesú! Herra Jesú! Í hvørs skauti það og sætliga sofnaði; og það deydi, sem mig frekast tilminnir, þegar það var hér um fimm til sex ára gamallt.

## 3ja Eptirdæmi.

Eitt meybarn, að nafni Maria A. þegar það var millum síns fjórða og fimmta aldurs árs, tók Guðs orda heyrn ad verka hjá því eina vidkvæma hjartans hræríngu, svo það gjørdist mjøg hugsjúkt um sitt sálar ástand og eilífu velferd; það grét beiskliga, þegar það hugleiddi, hvílik kjør sín verda mundu í ødrum heimi, og framsetti stundum óalmennilig spursmál um Gud, Kristum og sína egin sálu. Og á þennann hátt sýndist sem þessi litla Maria, adur enn hún var þó ordin fullra fimm ára gømul, væri sú, sem elskadi það eina naudsýnliga, og útvalid hefdi það besta hlutskipti; og hún sat optliga vid fætur Drottins Jesú, og það tídast med tárum.

2. Hún hafdi þann sidvana, ad bidjast

opt fyrir í einrúmi og stód ei allsjaldan upp af sínum knjám, med miklum tárum.

3. Hún plagadi til siñar bænagjørdar ad útvelja þañ tíma og stad, hvar meñ sist gjætu varir vid hana ordid, og bar sig svo mikid, sem heñi møguligt var, ad sjá svo til, ad engiñ vitad gjæti, hvad hún adhafdist, nær hún framdi sína heimugligu bænagjørd.

4. Hún var sérdeilis hrædd og uggandi fyrir hræsniñi, og varadist ad gjøra nockud í því skini, ad hún fengi fyrir þad álit af moñum, edur ad sér yrdi hælt og hrósad þarfyrir. Þegar hún heyrdi einusiñi eiñ af brædrum sínum ségja frá, ad hañ hefdi bedist fyrir í einrúmi, straffadi hún hañ alvarliga og sagdi hønum: "hvørsu litil not hañ, ad øllum likindum, af þvílíkri bæn hafa mundi; og þad væri litill sómi fyrir hañ, ad hañ á þañ hátt ei hefdi gjørdt bæn sína betur, eñ eirn skinheilagur hræsnari, med því hønum þækti vænt um, ad meñ vissu, hvad gott hañ hefdi adhafst."

5. Þegar módir heñar, eptir dauda ekta mañs síns, var mjøg sorgandi, kom þetta barn til heñar og spurdi: hvarfyrir hún gréti

svo yfirmáta mikid? Þá svaradi módurin: hún hefdi nóga ordsøk þar til, med því fadir heñar væri daudur; nei, kjæra módir, sagdi þá barnid, þér hafid énga orsøk ad gráta svo mikid; því Gud er og verdur engu ad sídur allatíma ydur eirn nádugur Gud og fadir.

6. Hún elskadi miøg iñiliga alla þá presta, sem trúlyndir vóru í sínu embætti. Einusiñi þegar hún heyrdt hafdi sira Witacher predika, sagdi hún: eg elska þeñañ mañ hardla miøg, fyrir þad hañ gétur talad svo sætliga um drottiñ miñ Jesúm.

7. Heñar stærsta yndi vóru bækur heñar og hvad sem hún las, þad, bar hún sig vel í miñi ad festa, og vildi aldrei yfir neitt hlaupa, svo hún hefdi þad ei vel yfirvegad og skilid. Optliga komst hún svo hjartanliga vid, þegar hún var ad lesa heil. ritníngu, ad hún úthellti mørgum tárum, og vard varla talin á ad hætta aptur; svo miøg gékk heñi til hjarta, hvad sem hún las um Kristí pínu, um vandlæti Guds þjóna gégn syndiñi, og um háska þañ, sem mañeskjan væri í stödd af náttúruñi til.

8. Hún plagadi opt ad barma sér yfir spillingu siñar náttúru og herdslu sins hjarta, ad hún ecki gjæti gjørdt fullkomnari ydrun, og gjæti ecki verid ángradri og audmjúkari, eñ hún væri, út af syndum sinum, gégn þeim heilaga og gjædskuríka Gudi; og þegar hún svoleidis barmadi sér, skédi þad med miklu táraflódi.

9. Hún var og sérdeilis hugslúk og áhyggjufull um sálar velferd añara maña, og ángradist mjøg, þegar hún hugleiddi, í hví-líku hørmuligu sálar ástandi margur madur væri; og þetta var orsøk til þess, ad, nær sem hún gat því vidkomid, var hún alltid vøn ad hneigja svo talid, ad hún med hjartnæmum ordum gjæti minst á Kristum og ypparligleika hans forþéñustu, til ad locka adra til hans elsku. En yfir allt leitadist hún vid, hvad hún kuñi, ad áviña hjørtu brædra siña og systra Kristi til handa; og meñ hafa ei all-litla orsøk ad vænta, ad heñar góda eptirdæmi, ásamt heñar áminíngum, muni sum þeirra svo yfruñid hafa, ad þaug, eins og hún, hafi, á sinum mjøg únga aldri í afvikiñ stad gengid,

til ad bidjast fyrir, og margar ágjætar spurníngar um Gud og gudliga hluti framsett.

10. Í því ad halda hvíldardagiñ var hún og mjøg samvitskurik, og þad svo mjøg, ad hún eyddi gjørvøllum þeim dégi, hvmist til ad lesa Guds ord, bidjast fyrir, edur og uppfræda brædur sina og systur. Einusiñi þegar meñ eiñ suñudag høfdu skilid hana eptir heima, safnadi hún, fyrir utañ brædur sina og systur, nockrum ødrum fleiri børnum saman, og í stad þess, hún einasta færi ad spila, eins og øñur vanartug børn plaga ad gjøra, sagdi hún til þeirra: "Í dag er drottinsdagur, þessvegna erum vid skuldbundin, ad þeinkja um, hversu vid hañ helgad fáum," og þar eptir skýrdi hún þeim frá, hversu meñ ættu allañ drottinsdag í heiløgum æfíngum ad útenda, ad undanteknu því, ef naudsynja og kjærleikans verk añad útheimtu; þar eptir tók hún, ásamt þeim, ad bidjast fyrir, og medal añars bad hún, ad Gud vyrdtist ad veita þeim, svosem úngum børnum, sina nád og vísdóm, svo þaug vita fengju, hversu þaug ættu hønum ad þjóna og þocknast; líkasem eiñ af þessum smáu, er var í þessu samkvæmi, sidarmeir frá sagdi.

11. Hún var þvílíkt barn, sem bar eina sér-deilis iñiliga medaumkun, med øllum ad søñu, en sérilagi þeim sem nockrum bágindum edur mótlæti sættu. Þeim sem hún gat ecki hjálp-ad, yfir þeim plagadi hún ad gráta; einkan-liga þegar hún einhvorju siñi vard þess var, ad módir sín hrygg væri, plagadi hún strags, ad láta sorg heñar sér svoleidis til hjarta gánga, ad hún tók undir eins ad gráta bædi yfir heñi og med heñi.

12. Þegar módir heñar, einhverra jard-neskra misferla vegna, gjørdist nockud stúr-andi, bar hún umhyggju fyrir, þegar heñi þad, med nockurt slag, møguligt var, ad taka frá heñi ángursemi heñar, med einu edur ødru móti. Eittsiñ sagdi hún til heñar: "æ elsku-liga módir, Guds nád er betri eñ allt svodd-an, (hún meinti þeir hlutir, af hvorra skorti módir heñar var ángursøm); eg fyrir mína persónu vil heldur Guds nád og Kristi elsku hafa, eñ allt añad hvad í heiminum er.

13. Opt máttu meñ sjá barn þetta sit-janda í þaunkum, og med áhyggju hugsa um, hversu þad verkad fengi sína eilífu sáluhjálp; um hvad, medal añars, vitni bar sú balmeñ-

illega spurníng, sem þad elttsiñ gjørdi, segjandi: "hvad munu þeir nú vera ad gjøra, sem allareidu iñkomnir eru í himnaríki?" og þad leit þessvegna svo út, sem hana hjartanliga lángadi til ad hún ogsvo mætti hjá þeim vera, sem lofsýngja Gudi, elska hañ, hafa sitt yndi í honum, og þjóna honum án syndar. Heñar tal um andlig efni var svo stakligt, ad þad vakti stóra forundrun, hjá mørgum þeim, sem þó vóru í trúñi vel æfdir, svo margir þeirra meintu, ad meñ naumast siña mundu añad eins barn og hún væri.

14. Hún hafdi stórt yndi og eptirlæti af lestri heil. ritníngar, og vissir partar heñar vóru heñi kjærari, eñ heñar dagligur matur og dryckur. Hún lærdi ymsar útvaldar ritníngar greinir utan bókar, taladi um þær med hjartnæmum og velgrundudum ordum, og vakti máls á þeim endur og siñum, vid gésid tækifæri, skynsamliga.

15. Adrar gódar bækur vóru heñi og ecki øldúngis ókéndar, heldur las hún nockrar þeirra, med stórri list og hjartans hræríngu; og þegar hún las, plagadi hún ad setja eitthvørt merki hjá þeim greinum, sem einkanliga

vermdu hjarta heñar, og var reidubúin til ad færa þær sér til nota aptur, vid uppákomandi tilferli.

16. Þegar einusiñi kvenpérsóna nockur, sem mjøg hrygg og órólig var í gédi, kom í hús heñar, og taladi á þañ hátt, um ástand sitt, sem engin mañeskja í heiminum ætti eins bágt og hún, og aldrei mundu sín kjør til bøtnunar breitast, gegndi barnid til sjálfkrafa og sagdi: "Þad væri fráleitt, ef nockur vildi ségja, þegar nótt væri, ad aldrei kjæmi dagur framar."

17. Í eitt añad skipti, þegar einhvør af heñar nákomnum, sem í nockurri þraung staddur var, lét umkvørtun af sér heyra, sagdi hún til hans: "eg hefi ádur fyrri heyrdt prestiñ sira Carter segja, ad madur gjæti engu ad sídur komist til himnaríkis, þó hañ engan skilding ætti í eigu síñi, en ecki án þess hañ hafi nádina og Guds ótta í hjarta sínu."

18. Hún bar eina stakliga elsku til allra þeirra, sem hún vissi gudhræddir vóru; og þegar hún sá einhvørn, sem hún heldt mundi ottast Gud, var líka sem hjarta heñar dansadi af føgnudi.

19. Hún hafdi stakliga gyrnd til at vera einsømul út af fyrir sig, og vard hjartanliga ángrud, þegar hún einhvørju sinni gat ei tækifæri fengid til ad bidjast fyrir í einrúmi; því án þess hún á þann hátt fengi nálægst sinn Gud í leyndum, gat hún ecki lifad; og þad var henni ei all litil ánægja, þegar hún gat komist afsídis í einhvørn stad, til ad bidjast fyrir og gráta.

20. Mjøg opt máttu menn heyra hana vegsama sinn Gud, en sjaldan edur aldrei kvarta yfir neinu, nema syndum sínum.

21. Hún héldt stødugliga þessum sínum vana fram ad bidja Gud og lofa hann, sem og í því ad audsýna stærstu vyrdíngu og elskufull atlot foreldrum sínum, og þeim, sem kéndu henni eitthvad gott. Þá módir hennar hafde ei all litla huggun af henni, í sínu eckjustandi, og sú litla Maria lagdi alla kappsmuni á, ad sá yndis brestur, sem módir hennar hafdi af missir síns ektamanns, mætti henni á nockurn hátt uppbætast, fyrir hlýdni, audsveipni og heilagleika barns hennar. Hún stundadi til þess, hvørsu hún á allan hátt fengi gjørdt módur sinni lífid sætt og róligt.

22. Þegar hún var millum síns ellefta og tólfta aldurs árs, varð hún sjúk, hvað hún með forundrunarverðri þolinmæði og ánægju umbar, styrkjandi og huggandi skildmenni sín, svovel sem hún kunni, með røksemdum heil. ritn'ngar, að þeir hlytu fúsliga við sig að skilja, þar hún ætti nú til eilífrar dyrðar að fara, og áminti þá, að þeir skyldu tilreiða sig, ef þeir lofsins vildu sig aptur sjá, í þeirri sælu eilífð.

23. Hún hafði um fácina daga sjúk verið, þegar nockrir fleckir sýndu sig á líkama hennar, hvørra hún sjálf fyrst ver varð, og fagnaði mjøg yfir því, þar hún meinti, að Drottinn hefði sig með þeim, sem øðrum kénnteiknum, merkt sjálfum sér til handa, og að hún mundi snarliga fá til Kristum að koma. Hún hrópaði til náunga sinna og sagði: "hér hefi eg nockra flecki á mig fengið, en eg skélfist ecki þar við, því eg veit, að eg er með þeim merkt, svosem annar egindómur Drottins." Þegar einhver spurði hana þá, af hvørju hún soddan vissi, svaraði hún: "Drottinn hefur sagt mér, að eg sé eitt hans elskuligt barn." Og svo talaði hún, sem sú, er full væri af heil. full-

vissu um, ad Gud elskadi sína sálu, og vard ecki hid allra minsta litilsigld edur hrædd, þegar hún á daudan mintist; miklu heldur var svo ad sjá, sem hún væri yfirmáta glod út af því, þá hún merkti ad hún var ecki lángt fra því, ad komast til húsa sins himneska fødurs. Líkasem hún og skømu fyrir sína burtfør vard med óútsegjanligum sálar fognudi uppfyllt.

24. Þegar hún lá í sinni daudans neyd, kom módir hennar og sagdi til hennar, ad þad gjørdi sér ángur, ad hún hefdi svo opt ávítad og typtad eitt svo vel artad barn, sem hún verid hefdi, þá andsvaradi hún þar til: "Æ elskuliga módir, talid ecki svoleidis! miklu framar þacka eg Gudi í þessari minni daudans neyd, ecki einasta fyrir ydar munnligu ávítanir, heldur og fyrir ydar virkiligu typtanir; því hefdu ecki ydar virkilegu ávítanir og typtanir gjørdt þad ad verkum, hefdi eg máské hlotid nú ad fara til helvitis."

25. Þegar einhverjir af nágrønnum hennar heimsóktu hana, og spurdu: hvort henni þætti nú ecki fyrir ad yfirgéfa vini sína? svaradi hún: "ef þér óttist Drottinn, munud þér mér sidar í dyrdina eptirfylgja."

26. Skømu fyrir sitt andlát átti hún í straungu strídi móti satan, og hrópadi því upp, segjandi: "eg er ecki ein af hans børnum." Sem módir heñar sá ad hún stødd var í þvíl:kri hjartans óró og ángursemi, spurdi hún, hver orsøk til þess væri, þá svaradi hún: 'Satan tók til ad sturla mig, en eg þacka Gudi, ad nú er allt komid á gódañ veg fyrir mér aptur; og eg veit ad eg ecki er ein af hans børnum, heldir heyri eg Jesú Kristo til."

27. Eptir þetta hafti hún í sér eina stóra tilfiñingu Guds kjærleika, og eina dásamliga sálarsjón, rétt eins og hún sjed hefdi himiniñ opiñ og englana koma ad taka á móti sálu siñi, hvers vegna hjarta heñar vard fullt af føgnudi, og heñar muñur med lofgjørd og vegsemd fyrir drottni.

28. Þegar þeir sem nálægir vóru óskudu af heñi ad hún vildi lióslliga frá skýra, hvad í rauniñi hefdi fyrir hana borid? ansadi hún: "þér munud þad eptir þeñañ tima fá sjálfir ad reyna." Og svoleidis géck hún med eirni fagnadarríkri hjartans upptendran og sálar sigurhrósi iñí himiniñ, þegar hún var hérumbil tólf ára ad aldri. Halleluja!

## 4da Eptirdæmi.

Eitt lítid stúlkubarn, þegar þad var hérum bil fiøgra ára gamallt, hafdi þad eina sterka sannfæríngu í sinni samvitsku um, ad þad skuldbundid væri, ad heydra sína foreldra, af því Guds bodord ségir: heydra skaltu fødur þinn og módur. Og jafnvel þó þad hefdi eitt nærsta slæmt uppfóstur, samt heydradi þad engu ad sídur foreldra sína, á allann upphugsanligann hátt, svo þetta barn vard sjálfum þeim, ecki einúngis heimugliga, huggunar orsøk, í ad sjá svo gudliga hegdan barns síns, heldur vard þeim þad ogsvo, hjá ødrum, orsøk einslags addáunar og vyrdíngar.

2. Þad var eckert sjaldgjæft hjá þessu barni, ad sjá þad gráta, þegar þad sá ad foreldrar sínir ángradir vóru, jafnvel þó þad sjálft ei hefdi þeim þvílíkt ángur orsakad.

3. Þegar þad frá barnaskólanum kom, plagadi þad med harmi og sterkum vidbjód ad segja frá, hvørsu ønnur børn hefdu med vondum ordum, er þaug talad hefdu, syndgad Gudi á móti, hvør ord ad svo vond væru, ad þad sjálft mætti þaug ecki eptir hafa.

4. Margsiñum plagadi þad ad forundra sig hjartanliga yfir þeirri Guds nád, er hañ sér, framar mørgum ødrum, audsýndt hefdi, þar ed þad mætti sjá suma fara betlandi, suma vera blinda og suma limlesta, eñ sér væri Gud svo gódur, ad þad hefdi eugañ skort á nockru naudsýnligu til lifs edur sálar.

5. Tídt og þráliga máttu meñ sjá þad, í einum edur ødrum afvikuum stad sitja á knjáuum og gráta.

6. Þetta litla barn plagadi opt ad gefa ødrum úngum børnum undirvísan um, hvørsu þaug ættu Gudi réttiliga ad þjóna, og einkum ad hvetja þaug til, ad þaug skyldu gánga affsidis, og í einrúmi kostgjæfiliga tilbidja Gud. Og þegar náungar þess vóru ecki vid heimilid, hafa meñ adkomist, ad þad kent hafi ødrum børnum ad bidja, einkum á suñudøgum.

7. Vani þess var sá, hjartanliga ad bidja adra, ad þeir í sinum bænum til Drottins vildu miñast sín, og bidja hañ, ad hañ med siñi nád vyrdtist ad tilreida sitt hjarta.

8. Þegar barn þetta einhvørju siñi sá nockra hlæa, hvørjir eptir þess meiningu ógud-

ligir vóru, sagdi það til þeirra: "að það ottadist þeir hefdu litla orsøk til að vera svo gladir."

Nær hinir spurdu þá: hvørt madur mætti þá aldrei hlæa? "nei, svaradi það, ecki fyr en þér um Guds náð fullvissir ordnir erud, því þeir gudlausu hafa meiri orsøk að harma en hlæa."

9. Það plagadi og að segja: "að það væri foreldra, húsfedra og húsmædra skylda, að straffa þá fyrir þeirra syndir, sem undir þeirra umsjón væru, því Gud mundi þess ans á sídarsta dögi af þeim krefja.

10. Þegar það las ritninguna var vani þess að brúka náqvæma gaumgjæfni, og að komast sérdeilis við í hjarta sinn.

11. Það lét med engu móti koma sér til að vanhelga sunnudaginn, heldur eyddi það hønum til gódra og gudligra ydkana.

12. Fúsliga og med føgnudi geck það til skólans, var og stakliga lærdómsfúst, og ødrum bornum til góds eptirdæmis.

13. Þegar það var sjúkt ordid, spurdi einhvør það: hvørt það væri fúst að deya? "já, sagdi það, ef Gud að eins vill mér mínar

syndir fyrirgèfa." Sídan var þad framar adspurt: hversu ad þess syndir kyñu því fyrirgèfnar ad verda? þad svaradi: "fyrir Jesú Kristi blód."

14. Þad vidurkèndi ogsvo, ad þad trýdi á Kristum, og hefdi sterka gyrnd og laungun hjá hønum ad vera, og loksins med stórum fögnudi uppgaf þad siñ anda.

Þar vóru añars mørg fleiri merkilig tilferli og kríngumstædur í lífnadi barns þessa, en órósemi sú og sorgàstand, sem náúngar þess lifdu í, hafa grafid þad í gleymskuñar afgruñ.

## 5ta Eptirdæmi.

Eitt sveinbarn ad nafni Carl Brúgmañ, hafdi naumast lærdt ad tala, þegar hañ tók þañ frábæra vana fyrir sig, ad framkvæma sína heimugligu bæn til Guds.

2. Hañ var mjøg hneigdur og gjarn til heilaga og gudliga hluti ad læra.

3. Hañ plagadi stundum ad kèña þeim sem hønum þjónudu, hvad skylda þeirra vid Gud og meñ utkrefdi.

4. Ádur hañ var ordiñ vel fær ad gánga til barnaskólans, lærdi hañ marga góda hluti utañbókar; en eptir þad hañ var til skólans sendur, hegdadi hañ sér svoleidis, ad allir þeir hañ þektu og med hønum umgengust, sig yfir hønum forundrudu, edur og añars, sig makliga yfir hønum forundra máttu.

O hvílikt elskuverdt náttúrufar, og hvílikañ hreinskiliñ Guds ótta var hjá þessu barni ad fiña?

5. Þegar hañ var í skólañ komiñ, hvad var sem hañ þá framar kappkostadi ad læra, eñ Jesúm Kristum þañ krossfesta?

6. Hans ordalag var svo heilagt og ástúdligt, hans athafnir svo hreinskilnar, hans andagt svo hjartgróin, hans gudhrædsla svo frábær, ad margir vóru albúnir um hañ ad tala, þad sama sem adrir tøludu fordum um Johañem: hver meinar þú barn þetta verda muni?

7. Hañ plagadi ad lesa þá heiløgu ritníngu kostgjæfiliga.

8. Hañ gyrntist ad ødlast æ meiri og meiri andliga þekkíngu, og plagadi ad fram-

setja mørg vigtug og forundrunarverd spursmál. —

9. Á morgnana vildi hañ aldeilis ecki stiga fæti út af sinnm húsdyrum, fyr eñ hañ úthellt hafdi hjarta sinn fyrir Drottni í bæniñi.

10. Þegar hañ fécк sér mat, hvad litid sem þad var, brást þad aldrei, ad hañ ecki upplypti ádur hjarta sinn til Guds, til ad ákalla hañ um blessun til siñar fædu; og sem hañ med fæduñi sig hóffsamliga endurnærdt hafdi, gleimdi hañ ecki ad vidurkéña med þacklæti gjædsku Drottins, sem hañ mettad hafdi.

11. Aldrei géck hañ svo til reckju, ad hañ ei hefdi ádur fallid á kné, til ad bidjast fyrir. Og ef hañ í eitt edur añad siñ gleymdi þessari siñi skyldu, sté hañ jafnskjótt aptur úr sæng siñi, kraup nidur á sin nakin kné, og hafdi eckert undir þeim, nema tóma skirtuna, og bad sídan Gud um fyrirgefningu þessarar syndar.

12. Þegar brædur hans vóru vid máltíd stundum ofur fljótir og gírugir, og toku sér mat, án þess þeir hefdu bordsálmiñ lesid, plagadi hañ þvílikt ad straffa; en sañfæring sú, er

hañ optast brúkadi, var svo látandi: mégid þid svoleidis breita? Gud vægi yckur í náð siñi! Þessi muñbiti brauds hefdi kuñad, ef Gudi þoknast hefdi, yckur til makligs straffs, ad hafa ordid yckur ad bana.

13. Ordatiltæki hans vóru hugvitsrík, hafandi ei litiñ vigtugleika ad geima; svo þad hefdi þókt fullvænt af einum gømlum og reyndum kristnum mañi, sem hañ taladi.

14. Hans veikindi vóru í lángsømum sjúkdómi faliñ, og þegar einhvør vildi í þessu tilliti hugga hañ, og setti hønum fyrir sjónir hve mikil audæfi hañ síðar meir erfa mundi, sagdi hañ: "hvad er í allt þvílíkt varid? eg vil heldur hafa himnaríki, eñ þúsund þvílíka arfa."

15. Þegar hañ sjúkur var, sýndist sem hañ hefdi eina sérdeilisliga gyrnd til himinsins, og hañ gjørdi mørg mikilvæg spursmál, áhrærandi sína sáluhjálp.

16. Þegar hañ uppá þaug spursmál fengid hafdi úrlausn þá sem hønum nægdi, spurdi hañ: "hvørsu ad sála sín gjæti hólpin ordid?" þegar meñ þá andsvørudu hønum þartil, og søgdu: ef ad hún med sañri trú tæki

til sín herrans Jesú forþénustu; var hañ med þetta andsvar til frids; og var reidubúiñ, ef meñ þess af hønum beiddust, røksemd ad gefa til þeirrar ókomnu vonar, sem í hønum var.

17. Nær hañ spurdur var, hvørt hañ vildi heldur lifa edur deya? svaradi hañ: "mig lángar til ad deya, svo eg fái ad koma til míns endurlausnara.

18. Eptir þad sjúkdóms þjáníngar hans voru teknar til ad vara, spurdi einhvør hañ: hvert hañ heldur vildi æfinliga þessar þjáníngar lída, ellegar Kristo afneita, ef hañ ei añars kyñi frá þeim ad friast? "æ svaradi hañ, eg, sem eitt barn, veit ecki hvørju eg skal hér til svara, því sú kvøl sem eg líd, mætti jafnvel gjøra eirn herkiñ mañ efablandiñ; þó vil eg kappkosta, ad umbera þessa þjáníngu svo þolinmódliga, sem eg best kañ." Eptir þad datt hønum í hug, hvørsu sá engelske píslarvottur Thomas Bilney, þegar hañ var í myrkvastofu, nóttiña ádur eñ hañ opinberliga brendur var, hefdi haldid einum sínum fíngri í ljósinu, til ad reyna hvørt hañ fengi eldsins hita þolad. "Æ, sagdi þareptir barnid, hefdi eg á þeim tíma lifad, skyldi eg fús-

liga hafa í gegnum eldiñ hlaupid; ad eins eg hefdi mátt komast til Kristum."

19. Sjúkdómur hans varadi mjøg lengi; loksins þremur døgum fyrir sitt andlát, gaf hañ til kyña sína burtfør; og ecki einarsta þad, ad hañ vissuliga deya mundi, heldur og sagdi hañ fyrir þañ dag, á hvørjum þad mundi ské. "A suñudagiñ, sagdi hañ, skulu þid taka vara á mér." Og reyndar var þetta eckert tilviljunar ord, hvad meñ þar af álykta kuña, ad hañ þad svo þráfamliga ítrékadi, og á hvørjum dégi spurdi: hvørt þad væri eñ þá ecki komiñ suñudagur? allt þar til sá dagur loksins kom. Og sem hañ komiñ var, þá allt í einu undir eins og sólin um morguniñ lét sjá siñ ljóma, þá féll yfir hañ einslags hugarins upptendran; hañ stardi augunum beint til himins, hans andlit vard gladvært, hans varir brosandi, og sínar hendur breiddi hañ út, rétt eins og hañ vildi heilaga engla velkomna segja, er komnir væru ad sækja hans sálu. En sem hañ kom nú til sjálfs sín aptur, sagdi hañ frá, hvørsu hañ sjed hefdi þá allra ástúdligustu mind, sem mans augu hefdi nockurntíma sjá kuñad; sá sami hefdi skipad sér ad

vera med gódu gėdi, því hañ skyldi iñan fárra augnablika mega med sér fara.

20. Ein pėrsóna sem stód rėtt nálægt reckju hans, vegna þess hún merkti, ad tími hans burtfarar var fyrir hendum, áminti hañ ad segja: Drottiñ í þínar hendur fel eg miñ anda! hvarvid hañ þá bætti þessum ordum: "því hún er þín eign; hvarfyrir? því þú hefur endurleyst mig, Drottiñ miñ trúfasti Gud!"

21. Hans sídustu ord, og þaug sem meñ skiljanliga til hans heyrdu, vóru þessi: "bidjid, bidjid, bidjid; já eg segi eñ nú eitt siñ bidjid! Þess meiri sem bænin er, þess framar mun allt luckast og vel gánga. Gud er sá besti læknir, í hans hendur fel eg nú miñ anda. O herra Jesú, medtak þú miñ anda! Nú, nú lyk eg mínum augum saman! æ fyrirgėfid mér, allt þad sem eg ecki rėttiliga gjørdt hefi! fyrirgėfid mér fadir miñ, módir mín, brædur og systur og øll verøldin! Nú lídur mer vel; nú eru mínar þjáníngar ad mestu leiti úti og endadar; miñ fegnudur nálægist nú! Drottiñ miskuna þú mér! o Drottiñ tak þú mína sálu til þín!" Og svoleidis fól hañ

sin̄ anda Drottni, þá han̄ var hérum tólf ára ad aldri.

## 6ta Eptirdæmi.

Eittsin̄ var eitt mjøg fátækt barn, sem átti eirn nærsta gudlausan̄ fødur, en, eptir øllum líkindum, eina hardla góda módur.

Þetta sama barn kom, eptir Guds rádstøfun, fyrir sjónir einum gudhræddum man̄i, hvør, undir eins og han̄ allra fyrst leit þad, aumkadi sig yfir því hjartanliga, fékk elsku til þess, og lángadi til ad uppala þad Jésú Kristo til dýrdar.

2. Í fyrstu lockadi han̄ barnid med stærstu ástsemi og kjærleika ad sér, med hvørri atferd han̄ eptir stuttan̄ tíma uppvakti í barnsins hjarta eina stóra elsku til sín, svo þad tók ad audsýna honum hlýdni, med stærri fúsleika, heldurin̄ børn plaga an̄ars ad sýna sínum náttúrligum foreldrum.

3. Med þessum móti opnadist hønum nú vegur til an̄ars stærra verks, og fékk því þess betra tækifæri ad in̄planta andliga hluti í barnsins hjarta; hvar til han̄ forsómadi enga vidleitni, ad svo miklu leiti Gud vildi þartil

ſna náð léna, og barnſins ſkilníngur gripið ſick.

4. Þeſs var og ecki lengi að bíða að Drottni þóknaðiſt að géfa þeim andligu ámynníngum, þeſſa mans, krapt í barnſins hjarta, ſvo það kom ſvo lángt, að barnið tók að fá elſku til guðligra og andligra hluta.

5. Þetta barn lærði mjøg ſljótt mikinn part þeſs vanaliga barnalærdóms utanbókar, og það, áður enn það ſjálft kunni vel að leſa; og mjøg ſtórt eptirlæti hafði það af því, að læra ſín kriſtilig fræði og barnalærdóm.

6. Það var ei að eins reiðubúið andſvar að géfa úr ſínum barnalærdómi, heldur plagaði það og jafnvel að ſpyrja ſig fyrir um þá hluti, er ei funduſt í þeſs barnalærdómi, og það með ſtærri greind, heldurenn maður af einu barni, á þeſs aldri, vænta kunni.

7. Það var því eitt hjartanligt eptirlæti að tala um Guð og guðliga hluti; og þegar þesſi guðhræddi maður, er það að ſér tekið hafði, annaðhvert baðſt fyrir eður las um heilaga hluti, eður þegar hann, eptir vana ſínum, annaðhvort útlagði predikunina, með fleirum orðum, fyrir heimafólki ſínu, eður ítrek-

adl þad af heñi, sem hañ numid hafdi, stnd-
ist barnid alltid ad gêfa nákvæmañ gaum ad
øllu þvílíku, og vera fúst ad taka á móti þeim
gudliga sañleika. Þad plagadi og med étrú-
ligu støduglyndi, og iñiligustu hjartans hrær-
ingu ad halda fyrru fyrir, þar til slíkar hei-
lagar ydkanir vóru á enda kljádar; svo þeir,
sem uppá þetta sáu, sig ecki alllitid yfir slíku
gløddu og forundrudu.

8. Þad plagadi mørg ypparlig spursmál
ad framsetja, og nærsta iñiliga ad tala um
ásigkomulag sálar siñar, og um himneska
hluti; og þad leit svo út, sem því hardla
mjøg nmhugad væri ad vita, hversu siñi sálu
lída mundi, þegar þad lokfins hlyti ad deya?
svo ad tal þess gjordi margañ kristiñ stansandi
og frá sér numiñ.

9. Yfir allt fram var þess stærsta yndi ad
þeinkja um þá fúrdanliga stóru elsku Kristi,
þegar hañ fyrir vorar syndir pínast og deya
vildi; og þegar á svoddan hluti nockud miñst
var, plagadi barnid ecki ad gêta tára bundist;
já þad var svo ad sjá, sem þad af addáun yfir
þessari óútsegjanligu elsku Kristi, aldeilis iñ-
tekid væri og í hjarta sínu upptendrad.

10. Stundum, þó jafnvel enginn madur hefdi vid þad um þessa hluti talad, tók þad af sjálfu sér ad gráta fögrum tárum, og sem menn spurdu þad eptir orsökinni til þess, plagadi þad ad segja: "ad eintóm umþeinking þeirrar ysirmáta stóru elsku Kristi, til vor syndaranna, sem kom honum til þess, ad hann fyrir oss kveljast og deya vildi, gengi sér mjøg til hjarta, og sér lægi vid, jafnvel med tárum, upp yfir sig ad hrópa."

11. Ádur enn þad var fullra sex ára gamallt, knúdi samvitska þess þad til ad fremja þá heimugligu bænagjörd, og þegar þad á þann hátt badst fyrir, skédi þad med þvílíkri stakligri hjartans sundurmarningu og tárum, ad þad, sökum þeirra tára sem þad úthellti yfir syndum sínum fyrir Gudi, vard eptirleidis raudt og dapurt til augnanna.

12. Þegar þad ordástad átti vid gudhrædda menn, plagadi þad allskjótt ad snúa talinu frá ødrum hlutum til andligra efna, og syndist litla ánægju af ødru tali hafa enn því sem eitthvad hné til þess, sem gott og gudligt var.

13. Að þessa kjæra barns þánkar hafi af umhyggju þeirra hluta, sem tilheyra ókomnum heimi, mjøg svo iñtekñir verið, var allðeilis augljóst að merkja að morgu; því jafnvél um miðnætti plagaði það að tala við sína legunauta, um það efni, er áhrærði sálu þess; og þegar það gat ecki sofið á nettuñi, var samtal um himneska hluti því jafnvel miklu sætara, eñ sjálf hin áqvarðaða næturhvílld. Þetta var þess sifeldur vani, og jafnvel plagaði það að upphvetja og knýa eiñ viſſañ og þó velreyndañ kristiñ mañ, til að eyða næturvøku stundunum, ásamt sér, með tali um Guð og þá eilífu hvílld.

14. Skømu þar eptir deyði þess kjæra móðir, hverrar dauði því mjøg til hjarta géck, því það bar stóra vyrðíngu fyrir heñi, og elskaði hana hjartanliga.

15. Eptir andlát móður siñar, plagaði það optliga að itreka, og sér fyrir muñi að hafa eitt eður añað fyrirheit, sem Guð, í sinu orði, føðurlausum børnum géfið hefur, einkum það sém stendur 2 mos. 22 svo látandi: Þér skuluð engri eckju edur føðurleysíngja mein gjora, því añars munu þaug til

mín hrópa, og eg vil þá þeirra hróp heyra.

Þessi ord plagadi þetta barn opt ad ítreka, og segja: "á jørduñi er eg nú fødur= og módur=laus, þó samt ef ein hvør vill mér mein viña, þá hefi eg eiñ fødur á himnum, sem vill mig ad sér taka. Hønum ofurgéf eg mig ad øllu leiti, og til hans stendur allt mitt traust og tilflugt."

16. Á þeñañ hátt hélt þetta barn áfr= am, í þessum sømu andaktar æfingum, lifdi sífeldt í ótta Drottins, og gaf ødrum ad merk= ja, hversu staklig Guds náð byggi í sínu hjarta. Loksins sofnadi þad sætliga í truñi á siñ endurlausnara Jesúm Kristum.

## 7da Eptirdæmi.

Eitt mjøg fátækt barn kom eittsiñ bet= landi, í einu hardla aumkunarligu ástandi, fyrir dyr eins gudhrædds mañ=vinar; en hátt= semi þess og útlit var svo ógédsligt og andst= yggiligt, ad madur hefdi, af vidbjód, mátt hrækja eptir því, nær þad kom fyrir hans augu. Samt þóknadist þad Gudi, ad upp= vekja í hjarta þessa gudhrædda mañs, eina

vidkvæma elsku og medaumkun yfir barni þessu, svo ad hañ kendi svo í brjósti um þad, ad hañ tók þad af gøtuñi í hús sitt, þar meñ þó eckert þeckti til þess foreldra, og á því var ei heldur þad miñsta þad ad sjá, sem uppveckja kyñi nockra elsku til þess, nema einarsta eymd þess og vesæld. Þessi gudhræddi madur, hvers augnamid í þessu einarsta var Guds dýrd, og ad leitast vid ad frama velferd þeirrar ódaudligu sálar hjá þessari vesælu barnskepnu, vildi ecki þyngja sveitiñi med þess uppelldi, tók þad þessvegna ad sér, sem sitt egid barn, í því tilliti ad uppala herranum Kristo til dýrdar. O eina rétt edalliga art kjærleikans!

2. En þad sem gódverk þetta gjørdi þó mest ágjætt, var þad, ad þad skédi midt í því ad svo litil von sýndist tilvera, ad gæta nockud gott verkad hjá barni þessu, þar sem þad ádur verid hafdi rétt vidundur í gudleysinu, og þúsundsiñum vesælla og vidbjódsligra vegna siña synda, eñ sokum siñar fátæktar. Því undir eins og þad var nockud á fot komid, hljóp þad fullum fetum beinleidis til helvitis, og þó þad væri eñ nú úngt ad aldri, var þad þó allareidu gamallt í vondsku og klækjum. Já

meñ munu naumast heyrdt hafa um þá mañ=eskju gëtid, sem í síñi barnæsku hafi djøflinum svo fylliliga lík verid, sem þetta vesæla barn. Þvi hvør mundi sú synd vera (sem þad añars eptir sínum aldri gat verid hneigt til ad fremja), er þad ecki drýgda hefdi? Svo vel upp=egnt af vondsku siñar egin náttúru, sem af vidbjódsligu eptirdæmi añara úngra betli=bósa, var þad uppstígid til eirnrar óalmeñiliga hárr=ar gudleysis trøppu.

Nídslig ord ad tala, Guds nafn ad van=brúka, ad blóta, ad sverja, og allra handa vondsku tegund ad fremja, var þess dagligur vani. En hvad þess þeckíngu á Gudi og gud=ligum hlutum snerti, þá var þad þar í argara, eñ eiñ heidíngi.

3. Þó var þetta synda og eymdastand barns þessa, þeim góda mañi, ad eins þess sterkara upphvatníngar efni til medaumkunar og ein tilknýing, ad gjøra allt þad ad verk=um, sem hønum møguligt var, til ad fá þess=um únga elldibrandi kippt út úr helvítis loga. Enda var og þess ecki lengi ad bída, ad Drott=iñ gaf hønum ad formerkja, ad hañ hefdi eitt eilífliga gjædsturikt tillit med sálu barns þessa.

Því undir eins og þessi gudhræddi madur hafdi þessa vesælu skèpnu í hús sitt iñtekid, tók hañ af alvøru fyrir því ad bidja, og erfidadi af øllum mætti fyrir, ad fá þad sañfært um þad, hvørsu þad, af náttúruñi til, væri í einu hørmuligu og fordæmanligu ástandi, og ad iñræta hjá því nockud um Gud og gudliga hluti; svo og um þad, hversu h:::leitliga dýrmæt þess sála væri, og hversu hún hlyti, eptir hegdun þess hèr í lífi, ad verda añadhvert eilífliga farsæl edur eilífliga vesæl. Og lofud veri sú ófor-þènta Guds nád! þad varadi ecki lengi til þess Drottni þóknadist ad láta mañ leñañ merkja, ad þad hefdi af Guds tilstilli verid, ad hønum til hugar kom, ad taka barn þetta ad s:r, svo hañ fengi þad Kristo til handa uppalid. Drottiñ gaf því snarliga hans gódu ámiñingum verkun, svo hjá barni þessu auglýsti sig á fám vikum ein-stakslig og undrunarverd umbreiting.

4. Snarliga vard þad sañfært þarum, hversu gudlaust sitt undanfarna líferníslag verid hefdi; meñ heyrdu nú aldrei framar til þess, ad þad hefdi vidurstyggiligt ordbragd, sværi, blótadi edur Guds nafn vanbrúkadi, miklu framar var þad nú sidsamt og audsveip-

id; já svoddan ein staklig umbreiting var skin á þessu barni, ad øll sveitin, sem ádur til forna vissi ad segja frá þess hrópliga gudleysi, tók nú smámsaman ad tala um þess forbetrun. Þess stallbrædur, þess tal, þess athafnir, vóru nú allt ødruvísi eñ ádur, og það var nú ordid ein øldúngis ný skepna; svo ad dyrd hiñar óforþentu Guds nádar, tók allareidu til, ad sýna sig á því þeckjanliga.

5. En umbreiting þessi var ei ad eins hid ytra, og svo adrir hana merkja kyñu, heldur og eiñig hvad hid iñra yfir høfud áhrærir; því optsiñis plagadi barnid ad gánga einsamallt í afvikiñ stad, og yfir sínu ádurframda skélfiliga gudlausa líferni beiskliga ad gráta og ángrast, hvers þeir audveldliga varir urdu, er voru á sama heimili, sem það.

6. Hin ypparsta umsorgun þess gudhrædda húsbónda var sú, ad hañ fengi æ dýpra iñþrickt hjá því þeim sañfæríngum, sem Drottiñ med því verkad hafdi, ad það gjæti sér þær í nyt færdt, ad svo miklu leiti møguligt væri; og hønum var ei all lítil gledi ad því, þegar hañ sá, ad sitt erfidi í Drottni var ei til forgèfins. Hañ fèck af reynsluñi æ stærri

vissu þarum, ad sjálfur Drottiñ framkvæmdi sitt verk kröptugliga í hjarta þessa barns. Svoleidis gjørdist þá barn skêpna þessi meir og meir sundurkramid og sorgandi, þegar þad hugleiddi og fañ, í hvørsu hørmuligu ástandi þad af náttúruñi væri, og þráliga æpti þad og andvarpadi yfir þessu sínu aumkunarliga og fordæmanliga ásigkomulagi.

7. Þegar húsbóndi þess tók ad tala vid þad um gudliga hluti, gaf þad med stærri alúd og nákvæmd gjætur þa rad, og hvad sem því kêndt var, þar ad lútandi, móti því tók þad med gyrnd og laungun. Mjøg sjaldan vard svo talad um þaug efni, er sálina snerta, ad barnid ecki hlýddi svoleidis þar á, rétt sem øll þess lífs velferd þar á ridi, og þad plagadi vid þvílikt tal opt í harm og grát ad falla.

8. Nær húsbóndi þess hafdi, aññadhvørt vid þad edur adra tal um heilaga og gudliga hluti, var vani þess, á eptir, til hans ad gánga, og ad spyrja sig eñ nú grandgjæfiligar fyrir um þad sama efni hjá hønum, og ad bidja hañ, ad kêña sêr og upfræda sig þarum betur; já ad hañ hlyti ad segja sêr frá

þeim sömu hlutum eñ nú einusiñi, svo það fengi þá betur skilið, og þeim í miñi haldið.

9. Á þeñañ hátt fór það dagvarandi í helguniñi, og leitaði eptir að ná sáluhjálpligri þekkingu á Guði og frelsaranum Kristo, ydkandi sig sífeldt í heilögum æfingum, allt til þess sjúkdómur sá, sem þá geisaði þar í landi, kom á heimilið, svo barn þetta varð og svo af hönum gripið. Í upphafi sjúkdóms síns, varð þetta vesæla barn yfirmáta skélft og óttafullt, og jafnvel þó þess líkama kvalníng stór væri, og tilferli sjúkdómsins nærsta þúngbær, svo gjörði þó tilfiñing synda þess, og umhugsan þess hörmuliga ástands, í hvörju (eptir þess óttafullu imindunum) sála þess eñ nú stödd var, þess kvöl og órósemi tinfaldt stærri; og það var stadt í einu ángistarfullu sálarstríði, því að þess fornu syndir stóðu fyrir þess hugskotssjónum, og gjörðu það yfirmáta óttasleigið.

Guðs freistínga-vílna grimd útsaug þess anda og blóð, og tilfiñing synda þess, sem og þeirrar velforþéntu Guðs reiði, var svo stórkostlig hjá því, að það vissi ecki né fañ nockur úrræði, hvað það skyldi tilgjöra. Sú þúnga

byrdi Guds óvináttu, og kvídi fyrir því, ad þad mundi hljóta ad bera hana eilífliga, rétt sem sundurmardi øll þess bein, og þad hrópadi opt upp af stórri hjartans ángist: æ hvad skal eg til gjørá! Þad var í sínum augum eiñ vesæll fortapadur syndari, og óttadist ad þad mundi hljóta ad fara til helvítis. Þad meinti ad sínar syndir væru svo stórar og margar ordnar, ad nú væri alls engin sáluhjálpar von fyrir sig framar. Þad var ecki þúsundusta part svo mjøg sorgandi fyrir sínu líkamliga lífi, sem fyrir síñi sálu, og hvørsu heñi mundi eilífliga lída. Stundum syndist því sem sjúkdómur líkama síns, væri eckert ad reikna, hjá því, sem þad fañ til í sálu síñi.

10. Þá þad nú stadt var í þessari stóru sálarneyd, þoknadist Drottni ad senda því eina persónu, sem hjartanliga tók sálu þess ad sér, hvør ed kostgjæfiliga setti því fyrir sjónir, þaug stóru og ypparligu fyrirheit, sem Gud hefur þeim mañeskjum gésid, er í þvílíkt sálar ástand rata, og syndi því, hvørsu í Kristo væri nægiliga nád og forlíkun ad fiña, jafnvel fyrir þá allrastærstu syndara, og ad hañ komiñ væri, til ad leita ad þvílíkum for-

tøpudum sképnum, sem þad væri, og þær sálu-hölpnar ad gjøra. En þessu vesæla barni fanst, í þessari siñi freistngu, sér vera þad eitt ysirmáta torsókt verk, ad géta trúad því, ad nockurrar nádar væri ad vænta fyrir þvílik-añ eiñ skélfiligañ syndara, sem þad væri.

11. Þad hrópadi ach og vei yfir sjálfu sér, ecki einasta vegna siña fyrrum ydkudu muñeida og lyga, og añara ytarliga stórra synda, er þad drygdt hefdi, heldur og hafdi þad stóra skélfingu og vidbjód í sér, fyrir sak-ir siñar af syndunum gagnspilltu náttúru og vegna svívyrdileika sins hjarta og erfdasyndar-iñar; hvørjar hugleidingar ollu því svo stórrar ángistar, ad þad søkum þessarar siñar sálar-neydar, gleymdi ad miklu leiti naud og þján-ingu sins líkama.

12. Þad tók til ad vidurkéña sínar synd-ir, og telja þær upp med þeirra kringumstæd-um, veinandi út af þeim med mørgum tárum, og opinberadi margt þad um sig, sem ádur var dulid, og engiñ madur í veroldñi hefdi gétad uppá þad borid.

13. Sjálft plagadi þad ad fella fordæm-ingarinñar dóm yfir sig, svo sem yfir þvílikañ

einn, sem engrar nádar makligur væri; því það meinti að þar væri í allri Lundunaborg, enginn svo stór syndari sem það, og hafði andstygð á sjálfu sér, sem þeirri svívyrðiligustu sképnu, er það til þeckti í allri veröldunni.

14. Ecki einasta badst barn þetta fyrir sjálft, með tárum og sterku hrópi, heldur og leitaðist það við að fá aðra kristna til þess og svo að biðja alvarliga fyrir sér.

15. Þegar kristiliga sinnaðir menn til þess komu, plagaði það að spyrja þá hina sömu, hvört þeir meintu, að sér væri nockurrar náðar von hjá Guði; já það bað þá, að þeir hl'fðarlaust segðu sér þann hreina sannleika um það efni; því það var um eckert svo hrædt, sem það, að ef það gjörði sér nockra góða von um sáluhjálp sína, að það þarmeð drægi sjálft sig á tálar.

16. Þegar því var nú fyrir sjónir sett, hversu fús og reiðubúinn Drottinn Jesús væri, að taka á móti öllum vesælum syndurum, þegar þeir að eins gjörðu sanna iðran og umvendtu sér, og nær menn þá undir eins gáfu barninu það ráð, að það skyldi vogast að koma til Kristum, til að öðlast náð og fyrirgéfningu,

þá gaf þad þad andsvar: "ad þad gjarnan vildi slíkt gjøra, og feigid kasta sér í fadm Jesú Kristi, en þad qvadst ecki géta añad eñ í mesta máta forundrast yfir því, ad þad gjæti satt verid, ad Kristur skyldi fyrir svo einkisverda og glæpafulla sképnu, sem þad væri, hafa vyrdst til ad deya, og ad sér findist nú, ad Trúin væri sá állra torveldasti hlutur, sem til væri í heiminum."

17. Loksins þóknadist Drottni ad géfa því þá von, ad jafnvel þó þad verid hefdi eiñ hiñ stærsti syndari, stædi sér þó Guds náð til boda; og þad byrjadi ad taka ad sér og tileigna þaug fyrirheit, er ad þessu hnigu, svo sem þetta: Komid til mín, allir þér sem erfidi drýgid og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra! O hvørsu tók þetta vesæla barn hjartanliga til ad lofa Gud og forundrast yfir hans gjæsku, nær því gafst hiñ allra miñsti geisli slíkrar vonar! hvørsu háleitliga hrósadi þad stærd þeirrar óforþéntu Guds nádar, er vildi miskuna sig yfir þvílíka eina vonda sképnu, sem þad væri, og fyrirgéfa sér sínar skélfiligu syndir; já þad vard loksins svo fullt af lofgjørd Guds og heilagri addáun yfir gjædsku hans,

ad eg vil brúka þarum ord eins dýrmæts Guds-mañs, er allt þetta sá og heyrdi, og hefur Gudi til dýrdar og lofs frá því skýrt, ad — segi eg — gjørvallt heimilid, á hvørju barnid var, vard, ad óøgtudum øllum þeim sjúkdómi; sem þar þá gèck, vegna þess stóra fagnadar og lofgjørdar vid Gud, rètt sem ad einú litlu jardnesku himnariki.

18. Barnid vóx sídan yfirmáta í þeck-íngu, reynslu, þólinmædi, audmýkt og vid-bjód á sjálfu sèr; já þad meinti þad aldrei kyñi ad nefna sig svo forøgtunarligu nafni, sem makligt væri. Nafn þad, sem þad optast plagadi ad géfa sjálfu sèr, var, ad þad kalladi sig: Pøddu.

19. Jafnvel þó þad, ádur þeßi tími kom, væri vant þeirri ydju ad tilbidja Gud, samt úthellti nú Drottiñ, á eiñ svo óalmeñi-ligañ hátt, einkanliga í tilliti þess aldurs, anda bænariñar yfir þad, ad þad badst nú miklu optar, miklu ákafligar, miklu andrikar og heitar fyrir, eñ nockrusiñi ádur. O med hvílikri ákèfd plagadi þad ad hrópa: "ad blód Jesú Kristi hreinsadi sig af syndum sínum, ad hañ sem er kóngur allra kónga og Drottiñ

allra Drottna, hvörjum himin, jörd og sjór tilheyrir, vildi sér allar sínar syndir fyrirgéfa og forláta, og sálu sína í sitt eilífa ríki medtaka!" Og hvad þad svoleidis taladi, taladi þad med þvílíku andans lífi og hita, ad hjörtu þeirra sem áheirdu, urdu þaraf med stakri forundrun og fögnudi uppfyllt.

20. Þad hafdi eina ecki allútla lifandi tilfiñingu dýrdar Jesú Kristi, og þeirra ypparligu gjæda, er hañ heiminum veitt hefur; já þad hafdi þvílíka eina sárheita laungun og þrejingu, eptir hönum, í sálu síñi, ad þegar madur ad eins miñtist nockud á Kristum vid þad, þá lá nærri vid, ad þad af fögnudi vildi fljúga úr sængiñi.

21. Þegar madur sagdi því, ad, ef þad yrdi heilbrigdt aptur, þá mætti þad ecki framvegis lifa, eptir því sem þess holdligu gyrndum gédjadist, heldur hlyti þad ad offra sér ad öllu leiti herranum Kristo, og gjörast réttiliga hans barn og þénari; þad hlyti ad gánga undir hans ok, hlýdnast hans bodordum og lifa einum heilögum lifnadi; þad hlyti ad taka uppá sig hans kross, og med fúsum huga, hans nafns vegna, ad lída smán og

vanvyrdu, og jafnvel offóknir, ef til þess koma skyldi; hugsadu þig nú um, mitt kjæra barn, sagdi einhvør, hvørt þú ogsvo med þessum skilmálum ert fús til ad gefa þig Kristo á hendur? Þá vottadi barnid, med alvarligum ordum og augnatilliti sín fúsleika hér til, og þad lypti sínum augum til himins og sagdi: "já af øllu hjarta er eg til þessa fús og viljugur, og vil med Guds hjálp og adstod, alla þessa kosti undirgángast."

22. Þó þess sálartilfinníngar væru nú þannig umbreittar ordnar, engu ad sídur sann þad þó til margra efasemdar þánka og mikils ótta í bland, og tók endur og sinnum ad hreifa sínu vanaliga kløgumáli, og segja: "Þó þad uppá slíka skilmála, sem ádur er sagt, væri fúst ad taka ad sér Drottinn Jesúm, þá qvadst þad samt óttast, ad, þared syndir sínar væru svo stórar og margar, þá kynni Jesús ecki vera fús móti sér ad taka." Þó var samt von þess, eptir þetta, jafnan stærri, en þess ótti.

23. Þann sídarsta midvikudag, sem þad lifdi, lá barnid, nærfeldt um eina hálfa stundu, líkasem frá sér numid, í einslags hugarins upptendran, á hvørjum tíma þad,

eptir sinni meiníngu, fékk ad sjá heilagra engla sjónir. Þegar þad kom aptur til sjálfs sín, var svo sem því mislíkadi nockud, og sagdi til kvennmanns þess, er hjá því var, til ad þjóna því: "Því vildirdu ecki lofa mér ad fara?" fara, svaradi hún; hvört þá, kjæra barn! Þad andsvaradi: "Þángarna med þeim ljómandi mönnum; þó hafa þeir sagt mér, ad þeir vilji nærstkomanda föstudag koma aptur, og taka mig í burtu, hvört þid viljid edur ecki." enda skédi þad og, ad þad andadist rétt á sama degi, sem þad til tekid hafdi.

24. Vid húsbændur sína var barn þetta yfirmáta þacklátt, og med hjartans vidkvæmni kanadist vid þeirra frábæru gódvild, ad þaug tekid hefdu sig af húsgángi til uppfósturs; og þad dádist stakliga ad þeirri Guds nád, sem uppvakid hefdi hjörtu sér alldeilis ókunnigra manneskna, til ad kénna í brjósti um sig, eina svo vesæla og vidurstiggiliga skepnu, taka sig ad sér sem sitt egid barn og uppala sig sídan, med þvílíkri fódurligri umhyggju. "O þid mínir dýrmætu fósturforeldrar, sagdi þad framvegis, ó þid sannarligu Guds börn! eg vona ad sjá yckar andlit aptur á himnum, því

eg er fullvifs um, ad þid munud þángad koma. O lofadur, lofadur veri Gud, sem gaf yckur þad í hjarta, ad þid vildud miskuna yckur yfir mig; því hefdi þad ecki skéd, þá hefdi eg hlotid ad deya og til diøfulsins ad fara og verda eilífliga fortapadur, hefdud þid ecki mig svo hjartanliga ad yckur tekid."

25. Næsta fimtudag ádur eñ þad andadist, spurdi þad eiñ gudhræddañ mañ, sem hjá því opt var: "hvad hañ heldi um sitt sálar ástand, og hvørt hañ meinti sála sín mundi í daudanum fara hljóta, því þad sagdist alltid vera uggandi um, ad þad kyñi ad gjøra sér eina falska ógrundada von, er sig á tálar drægi? hvar til þessi gódi madur gaf því andsvar á þeñañ hátt: "mitt barn, eg hefi svo opt med iñiligustu alúd leitast vid, ad setja sálu þiñi fyrir sjónir nád Guds í Jesú Kristo, og eg hefi út af Guds ordi géfid þér ósefanliga fullvissu um, ad Gud, af siñi óforþéntu nád, frambýdur þér Kristum og hans forþénustu, allt eins vel, sem hvørjum ødrum syndara í verølduñi; sértu nú hjartanliga fús móti hønum ad taka, svo muntu þá Kristum ødlast, og ásamt med hønum allt þad sem þig brestur;

og hvad kémur þá til, ad þú gèfur þessum efasemdar — og ótta fullu — þaunkum rúm hjá þèr? rètt eins og ad allt hvad eg hefi þèr hèr um sagt, væri eintóm lygi? Þú segir, ad þú óttist þad, ad Kristur muni þig ecki medtaka vilja; en eg óttast lángtum heldur, ad þú ecki af hjartans gruñi sèrt fús til ad medtaka hañ." Hèr uppá andsvaradi barnid: "æ víst er eg af hjartansgruñi þar til fús." "Nú vel, mitt barn, svaradi þá hiñ aptur, ef þú af hreinskilni til þess fús ert, Kristum ad medtaka, svo segi eg þèr þá fyrir sañ, og gjøri þig þar um fullvissan, ad Jesús Kristus er þúsundsiñum fúsari til ad taka á móti þèr, þvo þig af syndum þínum med sínu blódi og gjøra þig eilífliga sáluhólpiñ, já hañ gyrnist þetta ad gjøra lángtum heitara eñ þú sjálfur þad gyrnast kant. Og nú — á þessu sama augnabliki frambýdur Jesús sig þèr friviljugliga, ó þessvegna taktu nú á móti hønum í audmýkt, fyrir trúna, iñ í þitt hjarta, og segdu hañ velkomiñ, því hañ er þess verdugur." Ad hvørjum ordum úttøludum, Drottiñ lèt sèr þoknast, ad opinbera fyrir barninu stærd síns kjærleika, svo þad vard svo fagnandi, ad þad

tók rétt eins og til ad dansa í sæng sinni, og lék med fingrunum af ósegjanliga stórri gledi, rétt sem þad vildi segja: æ! nú lidur mér vel! sáttmálinn er saminn! Kristur er fús ad taka á móti mér, og eg er fús ad taka á móti hónum! svo er þá Kristur minn og eg er hans eilífliga!

26. Allt frá þessum tíma var barnid stödugliga fullt af fögnudi og fullvissu um elsku Guds til sálar sinnar, þad vegsamadi Gud hjartanliga og hafdi eina mjög sterka eptirlaungun ad deya, og hjá Kristo ad vera. Uns þad á föstudags morguninn fékk í na gyrnd sadda, og inngékk sætliga til sinnar hvíldar, med þeim ordum, ad þad sagdi: **Fadir í þínar hendur fel eg minn anda!**

Þad deydi einmidt á þeim tíma, sem þad fyrir fram ákvardad hafdi, og á hverjum þad vænti þess, ad heilagir englar mundu til sín koma. En þad var ecki wikid yfir nyu ára ad aldri, þegar þad svoleidis í Drottni burtu sofnadi.

27. Þessa frásögu hefi eg (segir sá sem hana í fyrstu ritad hefur), eptir einum skynsömum heilögum manni uppteiknada, hver alls

eckert var þessu pilltbarni skildur edur áhang-
andi, en sá þó sjálfur og heyrdi, allt hvørnig
tilgéck um lifnad þess og endalykt, eptir því
sem hér ad framan skrifad er.

Framhald af þessum barnadæmum skal koma
sídar, lofi Gud!

# Eptirmáli
## til allra foreldra medal almúgans, sem þessi barnaspeigill fyrir sjónir kémur.

Elskuligu vinir!

Tilgángiñ med útgáfu kvers þessa, þarf engum þeim ydar ad tjá, hvørra hjarta fiñur til gyrndar ad uppfylla þá allra mikilvægustu skyldu, ad iñplanta í hjørtum barna og únglinga saññan og følskalausañ Guds ótta.

Ad uppala børn svo, ad þaug verdi útvortis sidgód og kurteis, framsýn og atorkusøm í líkamligum hlutum, í einu ordi borgaraliga dygdug, er engañvegiñ svo torveldt, sem hid fyrra; þad tekst mørgum af oss tækiliga, enda þó ærid ábótavant sé hjá sumum. En þar sem vér, kjærir vinir! vitum, ad þad þarf lángtum meira til ad gjørast verdugur himins — eñ heims — borgari, já ad margur útvortis alltækiliga sidprúdur madur og gagn-

ligur limur í þessu heimsliga félagi, er þarfyrir enginn sanngódur kristinn; þá er ecki ólikligt, ad þegar vèr sjáum børn vor fyrir augum vorum vaxa upp, og jafnvel taka líkamligum þroska, og vidgángi í veraldligri mannád, ad sá þánki megi oss þá í hug skjúga:

"munu þá skèpnur þessar verda luckuligar í "eilífdinni? mun sála þeirra taka eins fram"førum í sønnum Guds ótta og elsku, í aug"um þess alltsjáanda, sem þaug taka fram"førum í því líkamliga, í mínum augum? "hvør ótáldræg merki hefi eg til þess, "ad sú lifandi trú á Jesúm búi í sálum "þeirra?"

Eg veit vel, þessi þánki liggur sem í dái hjá øllum þeim, sem ecki eru áhyggjusamir um sína egin sálar velferd, edur byggja von hennar á følskum ástædum. En vakni áhyggja sú af alvøru nockurri, breidir hún sig út, eins og varmi solarinnar, fyrst til vorra náteingdustu, og svo til annara, eptir sem kraptar og tækifæri leifa. Satt er þad ad vísu, ad børn vor fèngu í skýrninni fullann rètt til himnesks borgaraskapar; En, kjærir brædur! sá rètt-

ur tapast eins audveldt aptur, sem hañ fékst; og, æ því midur! ad hætt er vid þad rætist optast. En skuli hañ þá tapadur aptur í áñad siñ áviñast, kostar þad mikid ómak, og ætid þess meira sem þad lengur er undandregid. Þeir sem kristindómsins saña anda iñi hafa, þeckja og fiña til sañleikans í þessu máli. Ord vors blessada trúarbragda höfunds Jesú Kristi, hjá Matth. 7, 13. 14 og Luc. 13, 24 og margvídar, taka hér af allañ efa.

O! géti nú ecki ord hans — eg meina Jesú — qveikt þañ eld í hjörtum vorum, er drífi oss til ad verka, fyrst vora egin og síðañ barna vorra sálarvelferd, med trustu áhyggju og vareygd, sem Paulus býdur Phil. 2, 12, þá er eckert eptir, sem oss vakid géti; og erum vér þá óluckuligar mañeskjur. En þad lítur þó svo út, Gud nádi þad! sem drift þessi sè hjá allt of morgum mikid slök og dofin. En — hvad mun þá slíkum dofa valda, brædur minir! mun þad vera foragt þess guddómliga lærdóms, sem kallar mañ út í trúariñar heilaga stríd? Ney, slíkar vondsku er til allfæstra gétandi. Miklu framar eru þad falskar ástædur, uppá hverjar möñum er svo hætt

vid ad byggja von sáluhjálpariñar, bædi fyrir sig og sín børn. En þessar følsku ástædur, eru ein daud trú á Guds miskun og Kristi forþénustu; ein daud trú, hvørri ecki fylgir neitt sañarligt ángur fyrir syndirnar edur vidbjódur á þeim, eckert iñiligt húngur og þorsti eptir réttlætinu, engin krossfestíng holdligra gyrnda, í einu ordi engiñ andans bardagi fyrir lífsins kórónu. Meñ gjøra sér sjálfum vegiñ til lífsins breidañ, og ímynda sér sáluhjálpin fáist med litlu ómaki, þó meñ erfidi framar fyrir øllum ødrum hlutum, eñ heñi, þvert á móti tilbendtum Jesú ordum. En þad sem þessar følsku vonar ástædur, hjá svo mørgum, elur, er ad søñu margt, en þó sérdeilis: 1) Sú gamla erfdaspillíng, sem med øllum býr, er bædi gjørir skilníngiñ sljófañ, og þó viljañ eñ daprari til þess andliga góda. 2) Vanrækt foreldra og keñenda ad uppvekja hjá þeim úngu lifandi tilsiñíngu síns sálar ástands fyrir Gudi, svo Kristindómuriñ verdur hjá þeim tóm nit, fyrir utan kjarna. 3) Iñbirlad traust á útvortis gudræknis æfíngum, svo sem kyrkjuferdum, skriftamálum, altarisgaungum og þess háttar. 4) Yfirmátalig elska

og áhyggja fyrir þessu tímanliga, sem iñleidir í sálu mañs eitt óluckuligt tilfiñíngar — og listar — leisi til alls þess, sem þañ iñvortis Kristindóm og eptirkomanda líf snertir; og loksins. — 5) Dagfarsdæmi añara ædri sem lægri náúnga og vina, af hvørjum úngdóm-uriñ iñdreckur strax holdligt siñi, andvaraleysi og hálfvelgju í andligum efnum, sem, eins og drepsótt útbreidir sig frá sálu til sálar, frá húsi til húss, og undirleggur hópum sam-an, Gud nádi þad! únga og gamla. Og nú, kjærir brædur, þegar eg nefni dæmin, þá er alkuñigt hvørsu stóra verkun þaug hafa, bædi til góds og ills; en af þeim, sem hid sídara verka, er heimuriñ, því midur, lángtum rík-ari. Þó, Gudi sé lof! hin gefast líka íbland hér og þar. Þad sýna þaug sem framsett eru í kveri þessu; hvør þessvegna eru engin uppdik-tud, heldur oldúngis sañferdug dæmi, sem eiñ árvakur Guds madur, í þeirri engelsku kyrkju, ad nafni Jakob Jañeway í fyrstu uppteiknad hefur; sum eptir egin sjón og vitund, en sum eptir trúverdugustu maña frásk hyrslu, og hans rit feck í fyrstu mikid fúsa vidtøku og sterka útbreidslu í heiminum. Hvad hañ sjálfur opin-

berliga vitna þorir. Að v'ſu er mèr 'ei ók-
uñigt, hvað sú nærri heimſſpeki þykiſt hafa
út á ſl.k dæmi að ſetja; en þar ſem Guði
ſjálfum hefur þóknaſt að tilreiða ſvo hjørtu
únglinga þeirra, ſem þaug fráſkyra, að þeir
verða ſkyldu øðrum merkiligur ſjónarſpegill
ſañrar guðhrædſlu, þá gèt eg ei efaſt um,
að dæmi þaug ſem Guð ſjálfur ſemur og ſkyn-
ir, ſèu hin uppbyggiliguſtu fyrir þá ſem læra
vilja þañ rètta lifnaðar — og þeink'ngar —
máta til að þóknaſt hønum, í ſamhljóðun
með heilagri ritn'ngu. Þarfyrir hefi eg þeſſi
barnadæmi útlagt, í von góðrar viðtøku meðal
vors almúga. O! láti Guð þaug verka hjá
nockrum það, ſem augnamiðið er! En það
ſtendur mikið í voru valdi, góðir bræður!
voru, ſem erum foreldrar og húſſbændur;
hvørjum Jeſús Kriſtur hefur á hendur falið
lømb hjarðar ſiñar — það eru børnin vor —
til að uppala þaug, ſvo 'þaug verða mættu
hans kyrkju til heyðurs og uppbygg'ngar. Lá-
tum oſs því engan vegiñ nægja, þó þaug taki
framførum í l'kamligu atgjørfi, þó þaug verði
ſkynſøm, r'k og álitlig, og ſvo fr. Þetta
er gott með øðru góðu.

Og þad góda sem því fylgja verdur, ef þad skal ad notum koma, er sañur Guds ótti í hjartanu, soñ lifandi trú á Jesúm Kristnm i sáluñi; vanti þetta, þá er allt añad útvortis ágjæti, ecki einarsta fánytt, heldur jafnvel skadligt, því þad elur þá og eykur blindni og andvaraleysi mañeskjuñar. Eg vil heldur bidja Gud ad gjøra barn mitt fátækt og volad, eñ ríkt og lángésid í heiminum, sjái hañ þad fyrra þéna framar til þess andligu velferdar.

Nú vyrdist mér, kjærir brædur! sem eg heyri nockra af ydur med áhyggju spyrja: hvernig skal eg ad því fara, ad uppala barn mitt svo, þad hæfiligt verdi til himnaríkis? Ad svara uppá þessa mikilvægu spurníngu fullkomliga, verdur ecki í fám ordum; þessvegna hafa margir merkiligir Guds meñ ritad um efni þetta út af fyrir sig, af hvørra ritum vér engin høfum útløgd á vora túngu.

Mundi þá ecki skortur slíkra rita, affaka vanrækt þá, sem hjá mørgum af oss finst í þessu verki? Enganveginñ ad øllu; því bædi høfum vér svo mikid um þetta naudsynliga

efni hér og þar í ýmsum góðum Guðs orða bókum vor á meðal, og líka frambýður Guðs andi sjálfur sig til lærimeistara öllum þeim, sem hönum hjá sér rúm gefa. Þó mættu góð upplýsandi og uppvekjandi rit um þetta efni mikið gagn gjöra, þeim sem þá vildu þaug sér í nyt færa. Og allir þeir, hvörjum um sálar velferð sína og barna sinna umhugað er, munu víst óska, að skortur slíkra rita, meðal vor, yrði með tímanum, að nockru bættur.

Máské Guð gefi náð til þess. Enn leifið mér, kjærir bræður! að setja hér fram, í færstu orðum, nockrar athugasemdir, miðandi til þessa allranauðsýnligasta stóra verks.

Það er þá fyrst að segja, að ef þér viljið verk þetta luckuliga af hendi leysa, þurfið þér sjálfir að hafa bæði eirn vissann innvortis hæfiligleika og líka tilreiðslu til að géta það framkvæmt:

1. Hvað hæfiligleikann snertir, hlýtur hann, sem mest áríður, að vera í því falinn, að sjálfir þér séuð í sönnu umvendunar standi, og fyrir lifandi trú og kjærleika fast áhángandi þeim mikla hyrðir sauðanna Jesú Kristo; því

eptir því sem þér elskid hann heitara, eptir því munud þér taka ydur nær uppeldi lamba hans, og eptir því mun ydur veita það audveldara og luckast það betur. óumvendtar manneskjur umvenda traudliga ødrum.

2. Hvad tilreidslunni vidvíkur, er hún mest undir því komin, ad þér. — a) Med brennandi bæn ydugliga bidjid Gud, í Jesú nafni, um sinn heil. anda, bædi til ad beigja hjørtu barna ydar eptir sínum vilja, og til ad útbúa ydur sjálfa med sønnum dugnadi til þessa mikla verks. Bænin er svo ómissandi hér til — sem til allra þeirra athafna er sálum manna eiga til nota ad koma — ad án hennar verdur allt verkid líflaust, kraptlaust; og, ad mestu leiti, á andligann hátt, ávaxtarlaust. — b) Setjid ydur ydugliga og innliga fyrir sjónir dýrmæti sálna barna ydar, svovel sem ydvarra egin, og þeinkid undir eins til Jesú orda hjá Matth. 16, 26: **Hvad stodar manninn það, þó hann vinni allann heiminn, en lídi tjón á sálu sinni.** — c) Imindid ydur opt þann stránga reikning, sem Gud mun í dóminum af ydur heimta, fyrir sálir barna ydar, ef þær fortapast, fyrir ydar vanræktar sakir; og það samvitskubrixli,

er ydur þá plága mun, nær þér sjáid þessar óluckuligu skèpnur fyrir ydar augum, samt hvørsu þær munu þá sárliga áklaga ydur.

Ord Drottins hjá Ezech. 3, 17 mega híngad heimfærast.

Nær þér nú á sagdañ hátt, erud fyrir Guds nád undirbúnir og hæfir gjørdir, til þessa mikilvæga verks, þá hafid þessar eptirfylgjandi, edur adrar betri reglur, fyrir augum, midt undir þess framkvæmd:

1. Byrjid sneña — svo sneña sem verdur — ad iñprenta hjá børnunum ímindun um og lotníngu fyrir þeirri ædstu veru; og látid náttúruna, þad er skøpun allra hluta, vera ydar fyrsta vegvísir til ad sýna þeim ofaná almætti, vísdóm og kjærleika Guds. Einkanliga kappkostid ad útmála Gud sem allra elskuligastañ, þér getid, í þeirra augum, svo hjørtu þeirra hræríst og vikni þar vid.

2. Vekid sneña hjá þeim skilníng um þad, ad þaug syndug séu fyrir Gudi, og hvørsu syndin sé andstyggilig í hans augum; og ségid þeim alvarliga, ad hvør sá vísvitandi syndgar,

verdi af hønum óbæriliga straffadur, nema
hañ betri sig.

3. Dragid ecki heldur lengi undan, ad
segja børnunum frá Jesú Kristo, og hvad
gott mañkyninu af hønum stendur.

O kostid kapps um ad gjøra þessa heil.
persónu sem allra elskuverdasta og ástúdligasta
fyrir þeirra sálar augum. Takist ydur ad
qveikja elsku til hans í hjørtum þeirra, hafid
þér hjá þeim nídursád því besta sædi, sem lof-
ar blessunarríkasta áverti.

4. Þad er alkuñigt, hvørsu børnin eru
gésin fyrir, ad heyra ýmisligar nýar fráøg-
ur; færid ydur þessa þeirra saklausu tilhneig-
íngu í nyt. Ségid þeim heil. fráføgur úr
Ritníngufiñi; til dæmis, um syndafallid; þá
heil. forfedur og s. fr. einkum úr nýa testa-
mentinu, um Jesúm Kristum, sérdeilis um
þad, hvørsu hañ fríviljugliga píndist og dó
fyrir heimsins syndir, líkasvo um hans post-
ula og adra Guds meñ, sem þar umgétur.

5. Þessu næst segid þeim adrar þvílíkar
søgur, af sañgudhræddum mañeskjum yngri

og eldri, svipadar þeim sem þessi bæklíngur inniheldur. En gjørid þetta allt med svo einføldum og hrærandi ordum, sem ydur best møguligt er, svo ad jafnvel adferdin sjálf locki sannleikann því fremur, inni heirra hjørtu.

6. Hvílík skal nú vera ydar fyrsta uppfrædíngar atferd vid børnin, med einu ástúdligu, vidkvæmu innbyrdis samtali, sem uppløsist og lífgist med hjartnæmum dæmisøgum. Harmed leggid þèr miklu betri grundvøll hjá børnum ydar, enn med ad þvínga þaug til ad læra og þylja margar bænir og sálma utanbókar, eptir ordunum, af hvørjum þaug skilja minsta partinn, og fá sídan kannské leida þar á med tímanum. En þetta skal þó ecki vanrækja ad gjøra á hentugri tíd, og med rèttri adferd.

7. Varid ydur vid ad straffa þaug edur ávíta, fyrst í stad, fyrir þeirra eptirtektarleysi; þad er ei til annars, enn ad gjøra þaug enn nú eptirtektarminni, og sjálfann lærdóminn, sem og efni hans, þeim ókjært og leidinligt. Látid eina milda alvørugéfni alltíd fylgja ydar kunnslumáta og tali vid børn ydar, einkum

hvad andlig efni snertir! Hafid þad fyrir ydar stadføstu reglu!

8. Þegar þaug tekin eru ad læra siñ barnalærdóm, þá kappkostid af øllu megni, ad gjøra þeim verk þad sem allra ánægjusamast, og iñprenta hjá þeim elsku til lærdómsins og vyrdíngu fyrir hønum. Varist því, eins og heitañ eld, ad tala um heil. hluti fyrir þeim, nema med sañarligri vyrdíngu og audmýkt; aldrei ad sýna ydur sjálfa nema blygdunar — og andagtar-fulla, nær þér Guds ord um hønd hafid, edur miñist á nockud þad, sem til hans dýrdkunar þénar. Því skal engiñ trúa, hvørsu þad nidurdrepur allañ Guds ótta hjá þeim úngu, þegar þeir sjá hina eldri — einkum foreldra og húsbændur — fara med Guds ord vyrdíngarlítid, edur hafa nockud þad, sem þeim efnum tilheyrir, um hønd, med koldu jafngyldi, edur fyrir sídasakir. Þeinkid til orda Jesú hjá Luc. 17, 1. 2.

9. Iñrætid hjá þeim vyrdíngu fyrir heil. ritníngu, og segid þeim hún sé sú heilagasta og besta bók undir sóluñi, Guds egid lifanda ord, hvadan øll vor kristindóms þecking útflot-

m sé. Kéñid þeim ad lesa hana med andagt sér til uppbyggingar, en ecki einúngis til fródleiks, allrasídst til holdligrar skémtunar.

10. Vekid ogsvo hjá þeim virdíngu fyrir serhvørju ødru sem til Guds dýrdar litur, til dæmis: Gudsordabókum, húsandagt, kyrkjurækni, trúlyndum kéñifedrum og øllum gudhræddum mañeskjum. Því rétt í sømu trøppu sem þaug tapa vird ngu fyrir slíkum hlutum, tapar ogsvo hjarta þeirra søñum Guds ótta.

11. Venjid þaug sneña á dygd sjálfsafneitunariñar, og ad láta á móti sínum egin gyrndum; því ad vera herra síns siñis og tilhneigínga, er ein adaldygd í kristindóminum, án hvørrar hañ ei fær stadist.

12. Látid þaug strags læra ad sýna ydur tilhlýdiliga undirgéfni og hlýdni, svo dygd sú verdi þeim svo í barndóminum iñrætt, ad þaug sídar votti hana þess fúsligar sínum yfirvøldum; þar engiñ sá óttast Gud, sem ei heydrar Kóngiñ.

13. Kveikid hjá þeim kjærleikañ til allra maña og segid þeim ad kjærleikuriñ sé hin upp-

arsta dygd í Guds augum; þar af verda þaug saũgjørn í allri høndlun vid sína jafnlngja, en miskunsøm og medaumkunargjørn vid þá aumu, og fús til ad veita þeim adstod og bjargir.

14. Kēñid þeim ad foragta veraldariñar hégóma, heñar aud og maññvyrdingar; setjid þeim fyrir sjónir hvørsu allt svoddan er fallvallt og táldragandi; med því móti vardveitist hjarta þeirra frá hofmód, ágyrnd og holdligu siñi, sem steipa svo margri mañeskju í eilífa glotum.

15. Agid þaug skynsamliga nær vidþarf, en látid aganum jafnan fylgja gudligar áminingar, af hrærdu hjarta.

Agid þaug framar fyrir þær syndir, sem stefna beint á móti Gudi, en fyrir yfirsjónir þeirra í líkamligum efnum.

16. Hafid alla møguliga gát á þeim fyrir umgengni ógudligra; og veljid ydur framar, ef kostur er á, þad heimilis folk, sem minst hneigsli gefur børnum ydar, þó slakara sé til veraldligs dugnadar, eñ añad atork-

usamara, ef það er ofur holdliga siñad og andvaralaust. Metið kristiligt siñislag og siðferði barna yðar, yðar bestu lífslucku!

17. Gángið sjálfir undan þeim með guðligasta lifnaðar dæmi í øllum hlutum; látið þaug sjá, hvørsu þér hatið og forðist syndina af alvøru, en keppist eptir góðum verkum.

Látið þaug heyra yðar andagtar æfingar fyrir Guði, og hvørsu þér hjartanliga biðjist fyrir; slíkt kañ að kveikja neista í þeirra sálum, er á sínum tíma máské útbrjótist fullkomliga í heiløgum loga.

18. Segið þeim opt frá hvørsu guðligt hugarfar og líferni sé hið yndisligasta stand, og afmálið kristindómiñ sem allra elskuligastañ í þeirra augum, svo hjá þeim vakni list og eptirlángan til hans. Það er skaðlig þánkavilla hjá ofmørgum, að þeir ímynda sér sañañ kristindóm allt of sorgligañ og ørdigañ, svo þeim þessvegna, undirniðri, rís hugur við hønum.

19. Amiñið þaug óaflátanliga til bænariñar af ydrandi og trúudu hjarta, og segið þeim, að án heñar sé mañi eins ómøguligt að

halda vid sonum kristindómi, í sálu sini, til leingdar, sem náttúrligri manneskju ad lifa án andardráttar.

20. Haldid ydugliga reikníng vid þaug um hjartalag og lifnad þeirra, til ad sýna þeim ofanà med rökum, í hvörju standi sála þeirra sé fyrir Guds augliti. Lokfins. —

21. Minnid þaug þráſamliga á daudann, dóminn og eilífdina, og sýnid þeim hvörsu ósegjanliga mikid ridi á ad vera vel vid þessu búinn, þar á eina sidu sé eilífar kvalir ad umflýa, en á adra eilífa sælu ad hreppa.

Þessar fáu og einföldu reglur, brædur mínir! sem eg hér framsettar hefi, eru ad sönnu ein nærsta ófullkomin vegleidsla til þess allra mikilvægusta verks, nefnilíga kristiligs barnauppfósturs; samt sem ádur er eg þeirrar vissu vonar, ad ef þér, ad tilkalladri heilanda adstod, reynid til, med hreinskilni þeim ad fylgja, muni Gud, sem elskar sálir barna vorra í Jesú Kristo miklu heitar, enn sjálfir vér, géfa þar af gódann ávöxt. Og — hvör ávöxtur gétur gagnligri og glediligri verid, enn ad sjá börn sín uppvaxa sem eikur

réttlætisins plantadar Drottni til heydurs. Es. 61?

O! hvørsu mikid á heimurinn, bædi í tilliti sins borgaraliga og kyrkjuliga samfélags þeim manni ad þacka, sem eptir sig lætur vel uppalin — til gudhrædslu og manndygda vanin og lagin — børn? Hann skilur verøldinni eptir kostuligri féssjód, enn med øllu hennar gulli og silfri betalast kann. Já, sanngudhræddar manneskjur eru hin dýrmætasta gérsemi á jørdunni; og þó ágjæti slíkra glansi opt lítid í veraldarinnar forblindudu vina augum — þar á þessum perlum ber opt lítid í hennar þickva mannsorpi — þá þeckir Gud þó sína, og þeir eru dýrt metnir fyrir hønum; hvørra dýrmæti hann og loksins mun fyrir daginn leida. Sjáid nú, gódir brædur! sjáid; ad þvílíkum gérsemum í Guds augum gétid þér, fyrir hans náð, gjørdt børn ydar, ef þér kappkostid ad uppala þaug eptir evangelii anda, og sjálfur Gud mun ad lyktum launa ydur þad uppeldi ríkugliga.

Hugsid til þess, hvílík óútsegjanlig gledi uppfylla muni ydar hjørtu, ef þér, á sídasta

dégi, gêtid, ásamt ydur, framleidt børn ydar, fyrir Jesú hátignarliga auglit og sagt: hér em eg, minn herra, og þaug børn sem þú gafst mer! sjá, engu þeirra hefi eg glatad!